og slited/ Joh. 10. Eñ hvad seiger Postuleñ til Hebreos/ Cap. 12. Hvern Drottiñ elskar/ þñ agar hñ/ & hñ kyptar hañ Son/ er hñ ad sier tekr. Ef þier Ogunena þoled/ þa mun Gud kiæ sig ydur eins & Børnū. Þvi hvør er sa Sonur/ er Fadereñ ecke vandlæte um̄/ Eñ ef þier erud fyrer utañ Aga/ hvørs aller Hluttakendur eru/ þa eru þier Hior-Børn og ecke Syner. Hier af ræd eg þ/ ad Krosseñ Christi mæ reiknast Þantur Arfleifdar vorrar/ og eitt Trygda Merke/ sem Guds Sonur hefur fest uppa sijna Elskulega Brude/ og so sem Feste Peningur þess Bustadar/ sem Guds Børn hafa i hañs Rijke heima teked/ Þvi hier høfum vier ecke stadfastañ Samastad/ helldur væntum eins aññars/ þar sem vor Borgar-Riettur er/ sem er a Himnū/ Phil. 3. Þad er þ Merke/ er St. Paall um̄ talar/ Gal. 6. er hñ seiger: Ad Heimureñ sie sier Krossfestur/ & hñ Heimenū. Hiedañ af (seiger hñ) giøre mier eingeñ Onæd/ þvi eg ber Teikn JEsu Christi a mijnū Lijkama/ þar þ er Mootlæted alldrei so þungt/ og eingeñ Hørmung so mikel/ ad su Huggun ecke yfergnæfe/ ad vier eigū vissa Arf-Von i Guds Rijke medañ vier berū Christi Kross med Þolenmæde. Þar um̄ talar St. Paall/ Rom. 8. Sialfur Andeñ ber Vitne vorū Anda ad vier sieū Guds Børn/ eñ ef vier Børn erum/ þa erū vier og Erfingiar/ Jaa/ Erfingiar Guds/ eñ Samarfar Christi: Ef vier lijdū med hm̄/ ad vier eirneñ med hm̄ Dijrdleger verdū. Hñ seiger eñ aptur/ ad ef vier vonudū a Christ alleina i þessu Lijfe/ þa værum vier vesælaster allra Mañā/ 1. Cor. 15. Eg vil & þ seigia/ ad vier værū allra Mañā sælaster/ ef vier dijrkudū Gud þ Epterlæte þessa Heims alleina/ eins & hñ hafe ecke añad Hus undirbuū meira og betra fyrerbued þm̄/ er hañ elska. Reidunst þvi ecke/ Br. M. þott vier sium̄ hinum Ogudlega vel ganga / Ps. 73. eñ Guds Børn Hørmungar lijda. Þott Gud hafe a stundū margt læted epter Elskendū sijnū / þa er þ reindar ecke so eigenlegt Christendomenū/ ad þm̄ lijde jafnañ vel/ sem eru Christi Þegnar. Ogudleger hafa eckert a Himnū/ so hafa & Guds Børn eckert i Heimenū/ & þott þm̄ falle Rijkdomur til/ þa festa þau ecke Hiartad vid hñ/ Ps. 62. Hier um̄ aminner St. Petur næsta Heilnæmlega/ 1. Pet. 4. m3 þessū Ordū. Elskanleger (seiger hñ) skielfest ecke so ō Okun

uger af Reinslu þre er fram̄ vid ydr kiemr af Elldenū/til ad freista yd
ar/so sm̄ hefde ydur nockud Oveniulegt tilfalled/helldr gledest af þvi/
ad þier erud Hluttakendur Hørmunga Christi/so ad þegar hn̄s Dyrd
opeñberast/ ad þier gledjest þa Fagnande. Þegar Skyeñ hafa nockra
stund byrgt fyrer Soolena/þa skijn hun hvad fegurst. Þess meira sem
vier lijdū hier fyrer Christs saker/ þess helldur munū vier fagna/ nær
vier skulū med hm̄ Dyrdleger verda/Rom. 8. Sa kañ alldrei huggadur
ad verda/ sm̄ eige harmade. Maa sa nockud Sigrenū hroosa/sem eige
bardest? Gud kañ ecke ad afþerra þau Taareñ i eilijfu Lijfe/ er alldrei
voru uthellt i þssu. Lijtū þvi ecke til nærverande Hrellingar/hvør ad
er skam̄viñ/helldur til epterkomande Farsælldar/sm̄ er eilijf/vitande ꝥ/
ad Motlætingar þssara Tijma eru eige verdar þrar Dyrdar/sm̄ vid oss
mun opeñber verda i eilijfu Lijfe/Rom. 8. z hin lietta Hørmung/er vær
hier lijdū/ ablar oss Oumrædelegs Þunga eilijfrar Dyrdar/2. Cor. 4.
Hvørja Gud oss giefe fyrer Forþienustu Sonarens / Amen.

Hvad þvi Skijdara vidvijkur/er eg hiet um̄ ad tala/þa stendur hier i
Gudspiallenu/ Ad Vitringar hafe komed ur Austurveige/ og fært Bar
ne þessu Gaafur. Þetta sijner oss Guds Almattugs Fødurlega Um-
hyggiu og Forsion fyrer sijnum Børnū/ midt i Motgangenum/midt i
Orbyrgdeñe/ z sañast a þssu maal afars/ad Jesus hefur oss til Ept-
erdæmes lided/1. Pet. 2. Hiñ alskigne Gud/ fyrer hvørs Augū ad aller
Hluter opner og nakter eru/ Hebr. 4. hn̄ visse vel hvad laa fyrer sijnum
Eingietna Syne/ z hvørsu hn̄s Hønd hafde aasett ad plaaga hn̄ vorra
Synda vegna/Es. 53. med langre og mædusamre Reysu/z langre Ut-
legd i Egyptalande/z ꝥ strax sm̄ hn̄ i þeñan Eymda Dal boreñ var/
samt liet Gud hn̄ ecke alldeilis Hialparlausañ/helldur sende þssa Okien
du Meñ af fiarlægu Lande/til ad bæta hn̄s Naudþurft/z hn̄s fatæk
rar Modur. Tvent hefur hiñ goode Gud med þssu Almættis og Mysk-
unar Verke utriett. Hid fyrra/ad hn̄ sijnde ad þta Hialpræde tilheyr-
de heidnū Þiodū/Es. 49. hvørter ad voru aan Guds i Heimenum/og
fiarlæger Israels Rietke/Eph. 2. Þad Foolk er sat i Myrkrunū saa
Lioos mikid/Es. 9. Þvi eige er lijklegt ad þsser vijsu Meñ hafe duled

Þ þ Londū ſynū er þr ſau z heyrdu/ hvar epter ſydañ fylgde Chriſtne
Boded medal añara Þioda. Nañ ſende þeſſa framande Meñ ſo ſem i
Vmbode Heidingiaña/til ad hylla þñañ nyfædda Konung yfer ſig/til
þeſſ ad hñ drottna ſkyllde til ytſtu Veralldareñar Endemarka/ Pſ. 2.
O hvørſu ættū vier þeſſu ad fagna/ hvørier eige vorū Guds Folk/ 1.
Pet. 2. eñ hñ hefur þo kallad ſitt Folk. Hvørſu ættum vier ad pryſa
hñs Riettlæte yfer hñs eigeñ/z hñs Myſkunſeme yfer oſſ/ſm vorū añ-
arleger/ad hiner nattúrlegu Kviſterner eru afbrotner/eñ vier iñplant-
ader ſm vorū ville. Vȳnvidur/Rom. 11. Nañ rak ſiñ Eingieteñ Son i
Vtlegd a Ægyptaland/ſtrax a Omalga Alldre/eñ hñ hefur flutt Vyn
Vid af Ægyptalande aptur/ af þvi Þrældoms Huſenu/ og grodur-
ſett hñ i þvi Landenu er hñ villde giefa þm/Pſ. 80. Þad ma eg heim
færa uppa oſſ/hvørra Fedur ad voru Syndareñar z Diøfulſins Anaud
underokader / er þeir geingu til Mal-lauſra Skurgoda / 1. Cor. 12.
Alldrei kuñum vier nooglega ad mikla og upphefia hañs Guddomlega
Speke og Fødurlega Forſion/ad hñ med þſſu Vitringaña Dæme ſȳnt
hefur/ad ſa være i Heimeñ boreñ/ſ er vor Fridur z giører eitt af bad-
um/og Gyrdingu Midveggiarens hefur afbroted/ Eph. 2. Þar hañ
afmad hefur Ovinſkapeñ/hvørt ad var Løgmal Bodordaña/ſm var
iñefaled i Setningunū fyrer ſitt Holld/ſo hñ giørde tvo ad einū nyium
Mañe og ſemde Frid / ſo þar er nu af Gydingum þeim ed trudu / og
Heidingium/ er adur ecke trudu/orded eitt Sauda-Hus og eirn Hyrder/
Joh. 10. Þetta var hid allra meſta Myſkunar Verk/ vid þa er voru
hinū ſarruſtu Eymdū vafder og meſta Salar Voda/Eñ ſo ad Guds
Fødurleg Giæſka liete oſſ vita / ad hm og umhugad være um Lykamē
vora/þa ſier hañ ſynū elſkulega Syne/hvør ad i Volæde aleñ var/hañ
ſier hm Farborda med þeſſu Mote ſm adur er ſagt. Ð Eſra Gud/hñ
kom til ſiña eigeñ/z hñs eigeñ medtoku hñ ecke/ſeiger Johañes/Cap.
1. Arla ſyndu þ Gydingar/Hañs Mooder fieck eckert Rum i Gieſta
Herbergenu/til ad fæda Himeñs og Jardar Skapara i Heimeñ/nema
eirn Stall/Luc. 2. Eñ framande Meñ þred eckert af Gude viſſu/þr
komu um ſanga Vegu til ad færa honū Giafer. An Efa hefur hiñ
goode

goode Gud þetta giørt medal an̄ars til þess/ad þau eige skylldu Naud
lijda a Floottanū i Ægyptaland. Mætlugur var hn̄ ad siaa þm̄ borged
med ødru Mote. Hn̄ gat læted hvørt Heystrꝗ a Jørdun̄e ad Gulle ver
da. Þad var ecke meira Kraptaverk/ad leida þen̄an̄ litla Hoop i gieg-
nū Eydemørkena/ en allra Medala/ til Ægyptalands fra Canaan/
helldur en̄ mørg Þusund Jsraels Sona ur Ægypto in̄ i Canaans Land/
og forsorga þa um̄ heil fiørutijger Aar i Eydemørkun̄e. En̄ Gud vill
de hier med sijna bæde Moodur hn̄s og Foostur-Fødur/ sem og øllum
þeim/ er þetta Evangeliū sijdan̄ heyrt hafa og a han̄s Nafn trua/ad
jafnvel þott han̄ Konungur være/ þa være han̄s Rijke ecke af þessum
Heime/Joh. 18. Og so ættu aller þeir Lynder ad vera/sm̄ hm̄ villdu til
Handa ganga/ad læta sier nægia 1. Tim. 6. sin̄ deilldan̄ Verd/bæde i
Medlæte og Mootlæte. Og þegar vier høfū þad vier skulū fædast og
klædast med / ad vier lætum oss þa nægia / ef Gud vill so vera læta.
Vppa sin̄ Eingieten̄ Son hafde Gud lagt alla Byrde Synda vorra/
Es. 53. Su Anaud took til strax i Vøggu/an̄ars hefde han̄ ecke i Ar-
mood fæddur vered/og Landflotta orded/en̄ ef hm̄ var so um̄ hugad um̄
hn̄/ þa er hn̄ reidur var Syndaren̄ar vegna/ ad hn̄ þta giørde/ad han̄
sende hm̄ Eingla til Þioonustu/þa hn̄ freistadur var/Matth. 4. Ad
hn̄ sende hm̄ Eingil af Himne i hn̄s bitra Dauda-Strijde / Luc. 22.
Þvi villtu þa ørvænta um̄ Guds Adstod i Motgangenū/sm̄ i hm̄ ꝛ þ
hū ert sættur vid Gud/Col. 1. Og Jesu Christi Samarfe orden̄. Eru
ecke øll vor Høfud Haar talen̄? Mun þa eitt af þeim falla a Jørdu
an vors Fødurs Vilia/þar slijkt maa ecke eirn Titling henda? Matth.
10. og hvørsu dijrmætare erū vier þo Titlingunū/sm̄ med Guds Blode
erū endurkeypter: Act. 20. en̄ ef Guds Vilie verdur a oss/hvøriu høf
um vier þa ad kvijda? Er hn̄ fatækur ad hn̄ giete ecke hialpad? Edur
hardsvijradur ad hn̄ vilie ecke? Þvi møglū vier þa strax sem ecke er fyr
er Augunū þad sm̄ eta skal? Hvar fyrer þijngia Men̄ Hiørtu sijn med
Sorgū þessarar Næringar? Luc. 21. Þvi hripsa þr Naungan̄s Braud
ut af han̄s Mun̄e/sm̄ Ballded hafa/strax sm̄ þa vantar? Þvi sokkia
hiner med adskilian̄legū Vndan̄skotum og Rangsleitne er Yfervalld-

 enū

enu eiga Tolla og Tiunder ad gialda? Þvi hallda Meñ Daglaunar
añs Sveita inne? Þvi prettast Meñ a iñbyrdis i Kaupũ og Solum?
Allt þta er af hinũ Vonda/og giora þad nockrer af þvi/ad þr eru so
lynder/ Adrer þss vegna/ ad þr hyrda ecke um̃ þott ad þr bruke Leifar
Eckiunar/ z Arf hiñs Fodurlausa til Ohofs og Ofmetnadar/ eñ flest
er þess vegna/ ad þr vantreysta Gude/ eñ hvad miklu betra er ad bruka
Davids Rad/Ps.55. og varpa siñe Ahyggiu uppa Drottẽñ/þvi hñ
mun þvi vel til Vegar koma. Hañ kañ ad giefa Vatn af Helluñe þeg
ar hñ vill/Exod.17. Hñ gietur sadt sitt Folk med Mañа/Exod.16.
nær hm̃ þocknast. Hañ gietur synt Agar Bruñeñ a Þurlendenu/ nær
hun til hñs kallar/Gen.21. Hñ gietur forsorgad Jonas i Hvalfisks sins
Kvide/ Jon.2. og jafnvel læted Hrafneñ þañ grædugasta Hræfugl/
færa Eliæ Fædslu/1.Reg.17. Eñ Vantrueñ seiger ad Gud giore ecke
Jardteikner eins og a Eliæ Dogum. Eg jata þad/þess þarf og ecke
vid/Gud hefur so leinge synt oss Giæsku syna z Almætte/ ad vier mætt
um vel trua/þott ecke siaũ vier Teikn og Stormerke/Eñ þo vil eg þ
seigia/ad være þar til Eliæ Tru/Eliæ Bæn/og Eliæ Kiærleike/þa er
Eliæ Gud eiñ og hiñ same/ef hm̃ þætte Kraptaverkaña vid þurfa.
Eñ mier synest eige þurfa Jardteikner til þss/edur ad um̃breita Nætt
urunar Nattũ/ad Gud vardveite þa sm̃ hm̃ treysta/og hñ i Anda og
Sañleika ækalla/z siæe þm̃ Farborda/bæde þa illa z vel geingur/þvi
þss hefur alldrei Misbrestur orded fra fyrstu Heims Skopun/allt til
þessa Dags. Þad Ord stendur stodugt seiger Postuleñ/ 2.Tim.2. ad
þecker Gud syna. Eda vill nockur skrifa hm̃ fyrer/med hvoriu Mote
hñ hialpa skal? Seig mier/ hvor myndade þig nær þu eingeñ varst?
Ps.139. Hvor forsorgade þig i Modur Lyfe? Hvor leidde þig ut þad
añ? Hvor gaf þier Alldur z Voxt/Mæl z Vit? Giorder þu þtta sialf
ur? Eda hialpader þu nockud þar til med þiñe Ahyggiu? Seig mier/
Er þa ecke Lyfed meira eñ Fædslañ? Og Lykameñ meira eñ Klædnad
ureñ? Matth.6 Hvor lætur Grased a Jordũñe vaxa? Seiger ecke Je
sus ad þ verde ad Akurkalleñũ sofanda/Marc.4. Hvor plantar Trien
i Skogenũ? Hvor lætur Saudena fiolga a Jorduñe? Hvor framleider
Fiskana

Fiskana af Sionū? Hvør giefur Regned a Jørdena i hagstadan Tijma/ Paall sagde Gud giørde þ til Vitnisburdar um̄ sialfan̄ sig/ Act. 14. Være þier eirnen̄ rignt i Verølldena i Dag / og þu sæer ad allt þad skiede/ munder þu ecke kalla þ Kraptaverk. So verda Guds Almætt-is Verk/ eirn almen̄ur Hlutur hia oss/ i hvørium vier þo ecke hid min̄sta skilia kun̄um. Han̄ lætur mig þo margt Mootlæte þola/ seiger þu: Þvi man̄ eg hungra og þyrsta? Þvi han̄ vill kien̄a þier/ ad Maduren̄ life ecke af einusaman̄ Braude / helldur sierhvøriu Orde sem fram̄-geingur af Guds Mun̄e/ Matth. 4. Þvi em eg Siukur og Saar? Til þess/ ad Lijkaman̄s Veikl. ſa verde ad Andan̄s Heilbrygde. Þvi misse ed þ Gud mier ædur lanad hefur? So þu ecke fester Hiartad þar vid/ Ps. 62. Þvi verdur mijn̄um kiærustu Vinū og Adstodar Mōnū i burtu svipt? So ad Gud sie þin̄ beste Vinur/ og þu lærer ad þeckia/ ad hia hønum einū er Hialpen̄/ Es. 43. þa øll Man̄leg Hialp er ute. Hlusta þvi til þess er Eliphas Temanites sagde vid Job / af han̄s Bookar Cap. 5. San̄lega er sa Madur sæll er Gud typtar/ fyrerlijt þu ecke Straffan hin̄s Almættuga/ Han̄ hreller sialfur og læknar. Hn̄ slær/ en̄ hn̄s Hendur græda. Af sex Hørmungū mun hn̄ utrickia þier/ og i hin̄e siøundu skal eige snerta þig hid Vonda. J Hungrenu mun han̄ frelsa þig fra Daudanū/ og i Strijdenu af Sverdsins Hende. Vel er þ satt sm̄ Postulen̄ seiger/ Ebr. 12. Ad øll Typtan medan̄ hun æligg-ur/ þyker hun Sorg & eingen̄ Glede vera/ en̄ hun giefur þo eptera frid-samlegan̄ Avøxt Riettlætesins. Þar fyrer geingur þ Guds Børnū/ so sm̄ hn̄ um̄ sig jatar/ 2. Cor. 4. Vier høfū þen̄an̄ Fiesiood i Leir-Kier-um/ so ad Yferburder Kraptarens sieu af Gude og ecke af oss. J øllu þiaunst vier/ en̄ verdū þo eige adþreingder/ Vier efunst/ en̄ ørvæntū eige/ Vier lijdū Offsokn/ en̄ verdū eige yfergiefner/ Oss verdur nidur-varpad/ en̄ vier fyrerførunst þo ecke/ Hvar fyrer/ Brædur mijner: Þvi ad oss hender eige nema Man̄leg Freistne/ 1. Cor. 10. Þad er soddan̄ Motlæte sm̄ Mōnū er bærelegt/ En̄ hn̄ er trur/ og freistar einkis yfer Megn fram̄/ so ad margur Lazarus/ sa ed liggur þ Dyrū hin̄s Rijka/ fullur Kauna/ Luc. 16. hn̄ er tekur til Frids/ en̄ eirn Veralldar Son-

ut/hvørnAgyrndeñ Daglega plagar/hvøriū Ofundeñ sligkur/hvørn Reideñ breñer/ hvørn Hofmoodureñ uppblæs/ so hañ hefur eige Frid nema einhvør steike/hvar a moot Guds Vinur hroosar sier af Nørmungunū/ vitande ad Nørmungeñ verkar Þoleñmæde/ eñ Þoleñmædeñ Reinsluna/eñ Reinslañ Vonena/eñ Voneñ lætur eige til Skam̄ar verda/ Rom. 5. Þviad Elska Guds er uthellt i Hiørtū vorū þ Heilagañ Anda sem oss giefeñ er/ Rom. 5. Jatum þvi satt ad vera er Jacob seiger/Cap. 5. Sæll er sa Madur er Freistinguna þoler/þvi nær hañ reindur verdur/mun hñ ødlast Coronu Lyffsins/hvørre Drotteñ hefur heited þeim er hañ elskar. Heñar nioo tande ad verda/uñe oss Myskunsamur Gud / Konungur Eilijfrar Dyrdar / fyrer Son siñ JESVM / AMEN.

# Fyrsta Suñudag epter Þrettanda.

## Gudspialled / Luc. 2. Cap.

Þañ Tijma. Og þa ed Hañ var tolf Aara gamall / fooru þaug upp til Jerusalem/epter Sidvenju Hatijdardagsins. Og er þeir Dagar voru lidner / og þau fooru Heimleidis / vard Barned JEsus epter i Jerusalem/og hñs Forelldrar vissu þ ecke. Eñ þau meintu þad/ad hñ være hia Selskapnū/og voru so komeñ eina Dagferd/ og leitudu hañs medal Frænda og Kuñingia. Og þa ed þau fundu hñ ecke/geingu þau aptur til Jerusalem/og leitudu ad hm̄. Eñ þad skiede so epter þria Daga/ad þau fundu hañ i Musterenu/ sitiande midt a mille Lærefedrañā/ heyrande þeim og adspyriande þa. Eñ aller þeir er hañ heyrdu/undrudust yfer hñs Skilninge z Andsvørū. Og er þau sau hñ/hnickte þm̄ vid. Eñ hñs Mod er sagde til hñs; Son miñ/þvi breytter þu so vid ockur? Sia þu/Fad er þiñ z eg leitudū harmþrungeñ ad þier. Og hñ sagde til þra; Hvad er þ þid leited ad mier? Vissud þid ecke/ad mier byriade ad vera i þeim Hlutū sm̄ mijns Fødurs eru? Eñ þau underskoodu ecke þetta Ord/ sem hñ mællte til þra. Og hñ foor med þm̄ ofañ/ z kom til Nazareth/var þm̄ og hlijdeñ. Eñ hñs Mooder geymde øll þesse Ord i sijnu Hiarta. Og JEsu þrokst Alldur og Vitska/og Nad hia Gude og Møñum.

Exordium.

# Exordium.

HVør sem ecke medtekur Himmarijke sem ann̄ad Vng-Barn / hañ mun ecke Jñ-gang a t þad / seiger Endurlausnaren̄ / Marc. 10. Hvad skulum vier hier til seigia / Br. M? Jeg ætla ad Hollde og Bloode mune þetta Ovgar þyk-ia / og er þess øll Von / þvi þaug erfa sialf ecke Guds Rijke / 1. Cor. 15. Er þar pyrer lijklegt / ad þau mune ecke kuña mykla Grein a þeim Hlutum / er til Guds Rijkis heyra. Hvørnen̄ kañ Madureñ ad Endurfædast þa hañ er gamall? Hvørt getur hañ horfed aptur i siñar Moodur Kvid / og fædst so ad nyu? sagde Nicodemus / Joh. 3. Og slijkar Tølur mun Holld og Blood telia sier: Skal eg ¦ ava aptur eins og Vng-Barn / og verda Vitþyrringur eins og Vng-Barn / og lata ¦ llum Lætum eins og Vng-Barn? Eda eru Himnaña Dyr so þraungvar / ad eg verd ad skrijda a fioorum Footum iñ i Guds Rijke eins og Vng-Barn? Þraung-var eru þær ad sonu Christeñ Madur / og þad so miøg / ad hægra er Vlpalldan-um ad ganga i giegnum Nalar-Augad / helldur eñ Rijkum Mañe iñ i Himna-Rijke / Matth. 19. Og Leideñ er þangad so þraung / ad marger villa hana ganga og geta þad ecke / ad Vitne Christi / Luc. 13. Eñ ecke er þad Meining vors Frelsara / ad þad sie Vegur til Himmarijkis ad ganga i Bernsku edur Vngdæme / helldur eñ hitt ad Mañeskium byrtade aptur ad hverfa i Kvid siñar Moodur. Paulus seiger oss best hvørneñ þvi hagar / med þessum Ordum: Vered ecke Børn i Skilningenum / helldur i Hreckvijseñe / 1. Cor. 14. Sa er alltijd noogu Vitur / er sier lætur stioorna af Anda DRottens: Hañ er Fæðvijsare eñ Nauted og Asnen̄ / Esa. 1. sem mootstendur Heiløgum Anda. Vier þyker þad Vesalmañlegt ad æpa eins og Barn / eñ ecke þoocte þad David / sem ad Tæradest þyrer Gude um̄ allar Nætur / Ps. 6. Ecke Ezechiæ Konunge / sem tijste eins og Tranañ / og kurrade eins og Duufañ / Esa. 38. Ecke Manasse / sem giørde þetta Ydrañ þyrer siñar Syndir / 2. Par, 33. og voru þesser eingeñ Lyddemeñe. Ecke Petre / sem geck wt og græt beisklega / Matth. 26. Og ecke hiñe Bersyndugu / er þvode JEsu Fætur i Tæarum sijnum / og þerrade med Hærlockunum / Luc. 7. Þesser breyttu epter Smæbørnunum / og þañeñ ætla eg plester hafe geinged iñ i Himmarijke. Gud nade vort Eymdarstand hier i Heimenum / Þegar vier vorum Omalga Børn / og vissum eingeñ Skille Goods edur Jlls / þa var Himnarijke vort / eñ nær vier drøgu-wst a Legg / giørast sumer Helvijtis Elldebrandar. Gott er ad sonu ad vaxa ad Alldre / og under eins ad Vitsku og Naad hia Gude og Møñum / eins og Barned JESVS. Eñ hvad Jllskuñe vidvijkur / þa ætla eg gott sie ad vara allvæl af Barns Alldre / Þvi kalla eg hañ heppeñ / sem ecke veit af fleire Oodygdum ad seigia / eñ hañ er fæddur med / Jafnvel þo allt sie Holldlegt þad af Hollde nu er fædt / Joh. 3. Eñ þad mæ þo ad myklu Leite bæta med Christelegum Aga og Vpp-fræding / æn hvørrar Syndumspillt Nattura / er eins næm a þad Jlla / so sem Tundred tekur a moote Elldenum. Vm̄ þetta vil eg nockud framar tala ut af þessu H. Evangelio / er vier villium i Tvo Hlute della. 1. Vm̄ Skylldu Forelldrana vid Børneñ. 2. Vm̄ Barnaña Skylldu vid Forelldrana. Eñ þu sem ordeñ ert Hluttakande Hollds og Bloods / eins og Smæ-Børneñ / HErra JEsus

Christus,

Christe / Stiorna þu hiørtum vorum / so oss fwsa giøre ad fylgia þijnu blessudu Dygda Dæme / og send oss þar til Nad þyns H. Anda / A M E N.

# Utleggingeñ.

HJd fyrsta sem̃ Forelldrarner eru Børnunu̅ skylldugir um̃/ þad er Lij-kamleg Forsorgun/ Føt ꝛ Fæde/ þ kienner sialf Natturañ/ Nimeñ ꝛ Jørd hropa þad Daglega. Aller Hluter hafa Forsorgun af þvi sem̃ þr eru fædder af/ Villudyreñ a Mørkeñe/ þau grim̃u Leoneñ/ ꝛ hinar Olmu Byrnur afrækia ecke sitt Fostur. Tried hefur sitt Vøkva af Rootteñe/ og Ormu̅ Jardareñar giefur hun sijna Fædu/ ꝛ vier eru̅ sialfer kommer af heñe i Undverdu/ og øll sijn Børn hefur hun fyrer Almættis Krapt Drottens foostrad/ allt til þessa Dags/ Þacker sie hm̃ ad eilijfu/ sem̃ hana dæsamlega friofgar/ med Feite Vagnleidar siñar/ Ps. 65. Þetta er ad søñu skylldugt ꝛ Naudsynlegt/ eñ þo er þ hiñ miñste Partur/ jafnvel þott sumer þykest øllu hafa aflokid þegar so er giørt. Þad er þo Halfverk/ nema miña sie/ þvi betra er ad kasta Afkvæme sijnu ut a Mørkena/ eñ ad læta þad uppalast i øllu̅ Odygdu̅/ Diøflenu̅ til Þionustu. Hvad er þa framar? Hvad heyru̅ vier af Forelldru̅ Jesu? Þegar Hañ Var Tolf Ara GAmall/ Høfdu Þau Hañ Upp Til Jerusalem. J Exod. 34. stendur/ ad Drottiñ hafe giefid þetta Bodord: Þrisvar a Are hvøriu skulu aller þijner Kallmeñ mæta fyrer Auglite Drottens Guds þijns: Þessu Bode voru þau Joseph og Maria hlijdug/ ꝛ tøldu ecke epter sier ad reisa um̃ langañ Veg/ allt fra Nazareth i Galilæa upp til Jerusalem. Merk hier hvad þst a ad vera i christelegu Uppelde/ sem̃ er Otte Drottens. Þad sē fyrst kiemur i Kiered/ þ lyktar þ leingst af seiger hiñ Romverske Ordshattur. So eru og Berneñ/ Þad fyrst er hia þm̃ iñplantad/ þvi hallda þau leingst/ eñ eckert er þvilijkt/ sem̃ Otte Drottens. Hañ er eins og Sæded þ Meñ i Jordena leggia/ þ kañ eige añad/ eñ ad bera sier lijkañ Avøxt: Þar fyrer a þ ad vera þitt fyrst a Verk/ christeñ Madur/ ad iñræta hia Barnenu elskuna til Guds/ og mun allt añad gott med miña Erfide a epter fylgia. Læknisdoma giefa Meñ iñ a tomañ Maga/ og hallda þ gott til Heilsubotar. Vier fædumst i þeñañ Heim sjuker af Syndeñe / þvi i Syndeñe em eg aleñ

seiger

seiger David/ ⁊ i Syndeñe hitnade miñe Modur med mier/ Ps. 51. En
hvør mun þvilijk Lækning þar vid/ sem Elskan til Guds? Lat þiñ Son
drecka hana iñ med Modur-Miolkeñe/ og muntu abla hm̄ Andlegrar
Heilbrygde/ ⁊ þ medur eñ allt añad iñ kiemur/ medur eñ hid unga Hiarta
saurgast af Heimsins Ohreinendum/ af vondre Umgeingne og illum Dæm
um/ ad þ sie þa fullt af Elskuñe til Guds og Dygdaña/ so þa Satan
kiemur ⁊ ber ad Dyrum med Hamre Lastaña/ þa verde hñ snarlega broken
a Bak aptur/ af þeim sem hm̄ er yfersterkare/ Luc. 11. Lastadu Blygdun-
arlaust/ þar mun alltijd eitthvad vid loda/ seigia hin Hreckvijsu Diøf
ulsins Børn/ sem tamt er ad bera illt i Høfdingiaña Eyru/ til ad a abla
Fiandmøñum sijnum Opocka. Bruka hid sama vid Barn þitt med ødrum
Hætte. Tala jafnan um Gud/ hvad godur hñ sie/ ⁊ hvørsu volldugr/ ad
hñ hafe Himen og Jørd skapad/ hvad miked gott hñ Møñum veite/
hvørneñ hñ þa daglega forsorge/ hvørsu goodur hñ sie þeim/ sem hñ
ottast/ hvad dijrdlega Vist hñ hafe tilbued þeim med sialfum sier/ er hñ el
ska og nockud lijda i Heime þessum hñs vegna/ hvørsu agiæt Giøf ad sie
Jesus Christus/ ⁊ hvørneñ hñ hafe eirneñ Ungbarn giørst þ Maññaña
Hialprædis saker. Tala þta þ Barnenu christeñ Madur/ þ er su hreina
og skinsamlega Miolk/ sem ad Petur um talar/ 1. Pet. 2. Ad vier skulum
girnast/ so ad vier vøxum til Sæluhialpar/ og tru mier til/ þ mun eige
Avaxtarlaust verda/ jafnvel þott Bernskañ sie enn i Ungdomsins Hiar
ta. Prov. 22. Þvi af Muñe Smæbarnaña ⁊ Briostmylkingaña hefur
hñ sier Lofed tilreidt/ Ps. 8. Þetta mætte einfalldlegt þykia/ þ er þo þ/
man hvørs eingeñ hefur vitur orded. Jeg skamast mijn ecke ad tala þad
til Guds Barna/ sem Moysi þotte eingeñ Minkun ad tala til Israels
Sona/ edur hvad seiger hñ? Devt. 6. Þesse Ord sem eg byd þier i Dag/
skalltu leggia uppa Hiarta þitt/ ⁊ bryna þau allt jafnt þ þijnum Børnum/
og ræda um þau nær þu situr i þijnu Huse/ og binda þau til Merkis
a þijna Hønd/ ⁊ skrifa þau a þijna Dyrustafe/ og þau skulu vera þier
miñing Teikn þ þijnum Augum. Hvar um talade Moyses þta? um Guds
Løgmaal sem þo deyder/ 2. Cor. 3. Hvad miklu framar ma eg þ seigia
um Ord Evangelij/ sem er Lijf og Ande/ Joh. 6. Og fyrer þvi ad allt

Løgmaaled er i tveimur Bodordū innefaled/ sem er ad elska Gud af øllu Hiarta/ z Naungañ sm̄ sialfañ sig/ Matth. 22. Þa undervijsa Barnenu strax a unga Alldre/ hvørneñ aller sieu ordn' eirn Madur i Christo/ Gal. 3. eñ hñ sie Hofuded/ Eph. 1. Hvad skammarlegt þad sie/ ad eirn Limureñ forsmaaer annañ/ edur ad þr tønlest z tryggest innbyrdis/ þar til þr mættu um̄ sijder verda uppetner: Ja hvada Merke hiñ goode JEsus hefur sett uppa sijna Læresveina/ ad aller skule þeckia þa þar af/ ad þr elske hvør annañ/ Joh. 13. Brijn fyrer Syne þijnū Christelegar Dygder og Gudrækelegt Athæfe/ Hogværdena/ Kiærleikañ/ Myskunsemena/ Þolenmædena/ Riettvijsena/ Goodfijsena/ Sparsemena/ Hugprijdena. Afmaala þær so sm̄ Drottenns Eingla i hñs Augū/ so ad hñ faae Elsku til slijkra Hluta/ og hafe þa kiærare eñ allt annad/ og þecke hvørsu Gud hafe þa kiæra er slijkt ydka/ og hvørneñ ad aller Ogiæter Hluter/ sm̄ Meñ hafa mestar Mætur a i Heimenū/ plage slijkre Atferd epter ad fylgia/ so sem er Heidur/ Mettord/ Audsæla/ og annad stundlegt Epterlæte er Gud veiter mørgū af sijnū Vinū: Eñ kunne odruvijse ad falla/ þa sie Dygdeñ sijn eigeñ Verdlaun i þessu Lijfe/ z hafe Fyrerheit eilijfrar Sælu i Himnarijke. Laat hñ sm̄ allra seinast naa Odygdernar ad þeckia/ eñ elska alldrei. Drep þra Nafn ut i hñs Eyrū/ og gior Lesturna ad Skrijmslū og Ofreskiū/ leid hm̄ þ Siooner þra Straff og illar Vilfarer/ er þvilijkt adhafast/ og ad hñ mune slijkañ Kost eiga/ nema hñ gjallde varhuga vid: med soddañ Forkølū er christelegt og skynsamlegt ad hræda ungar Mañeskiur/ eñ eige med Grijlū/ Draugū og Forynīū. Upphaf Vitskunnar er Otte Drottenns/ Ps. 111. eñ ecke ad hrædast Fiendur og Puka/ hvøria þr alldrei sied hafa er hvad mest þar um̄ rausa. Um̄fram̄ alla Hlute vert sialfur hiñ skiæraste Dygda Speigell fyrer þijnu Afkvæme. Laat eckert lioott sioost i Fare þijnu / hvad hiñ Unge kunne epter ad henda. Børneñ trua Forelldrunum eins og Gude/ og meina þ sie allt Gott sem þau giøra. Laat ecke Hlijdne Undergref nenar glæpast a Agne Illskunnar. Fyrer øngvum a meire Blygdun ad bera/ eñ fyrer einum Ingling. Þad er betra ad giora Lioott eitthvad i Høfdingians Auglite eñ Barnsins. Hvar a þiñ Sonur gott ad læra/

ef

ef hn̄ sier eige til Fødursins añad eñ þ Jllt er? Munt þu/ sm̄ Ckū ert bladeñ hafa giefed hn̄ so næmañ a Dygdern" /ad hn̄ lære þær sialf kra fa/ er hañ sier alldrei þ sier nema Odygder? Kuñe þig þvi Mañlegt ad henda/ so sem opt skiedur/ þa kak þier Vara fyrer / ad hiñ Unge Madur vite sem miñst þar af/þvi eg vil helldur ad Ovinur miñ siae Jllt til myn/ helldur eñ Sonur miñ/ Þegar eg giæte ad hvørsu þung ad Guds Hønd vard yfer Jeroboam Syne Nebat / sm̄ ad kom Jsrael til ad syndga/1.Reg.14. Pad er z ecke noog ad þu vardveiter sialfañ þig/vakta og Barn þitt fyrer vondū Selskap/þvi illt Samtal spiller goodū Sidū/seiger Postuleñ/ 1. Cor. 15. og lyked Surdeyg styrer allt Deyged/ 1.Cor.5. Jeg sie hier i Gudspiallenu/ ad Joseph og Maria leitudu ad JEsu a medal Frænda z Kuñingia/sem voru Gudhræddet Meñ/eñ ecke medal Jllþydis/Hvar fyrer; Þvi hn̄ var ecke þeßhattar Selskap vanur. Þau fundu hn̄ og i Musterenu/Sitiande midt a mille Lærefedrañs/ eñ ecke uk a Strætū medal Gaarunga. Eingeñ kañ um̄ þad Nøgū ad hyggia/hvad vondur Selskapur giører/ þ geingur tregt ad venia vonda Nattkuru a hid goda/hitt er liett ad temia gooda a hid Vonda. Juda hefde kañskie ecke vered Hluttakare i Mansale NB. Josephs/ hefde ecke spillt hm̄ Selskapur Brædra siña/ Gen. 37. Dina hefde hallded Æru siñe/hefde hun ecke komed i lauslætar Hendur/Gen 34. Paulus hefde et offokt Guds Christne/ nema hn̄ hefde ædur vered druckeñ af Surdeyge Phariseañs/Matth.16. Þott ad vier sieum giefner og fædder i Syndeñe/þa er þo Barnañs Hiarta lykt hreinum Pappyr/þared aller Hluter verda rikader a. Ef þ er gott/þ blyfz/ er þ Jllt/ þ er ecke helldur so liett uk ad skafa/ so ecke a siae/ Ungeingne Hreckvyßra Mañs er heimuglegt Sykur / eirn Nattur-Pioofur / ein Mordpyla/ein Drepsott sm̄ i Myrkruñū lædest/Ps.91. eirn Høggorm ur i Barme og Rotnan i Beinunū/Prov.12. Hallt þvi hinū ungu Arū fra styrkre Olifian. Barned samþycker þ kañskie ecke strax sm̄ þ heyr er/eñ tru mier til/ad eitt vondt Ord grefur meir um̄ sig i Hiartanu eñ Flyßeñ i Holldenu. Ef nockur styngur Fyngreñ a Vared medañ þ er

 blautt/

N.B. Mañ er Præll / ad sella Mansale / er ad sella i Prældoom.

blautt/þa verdur þar Hola epter/og hun varer þegar þ hardnar/tekst z ecke helldur i burt nema þ sie brædt aptur. So er z Barned. Þad eirn Vngur numde/þ kañ hn̄ gamall. Gietur og kañske ecke gleimt þo hn̄ villde/og þo hn̄ kiñe. Þa er betra Neillt eñ Bætt. Lꝍt þvi sem miñst verda Spiollen̄/so eige þurfe ad endurbæta. Þar er Storlæte nockurt i flestra Mañ a Niortū/ Jer. 17. þvi Madureñ er drambsamt Dyr. Þad er ad søñu skadleg Tilhneiging / kañ þo til Gagns ad koma/ sie heñe vel stiornad/lꝍt þiñ unga Son læra ad forsmꝍ þ sm̄ Jllt er/og virda þa ad aungvu sm̄ ecke vanda sialfa sig/ Þad Storlæte er skadlaust/ þvi Postuleñ seiger ūm þa sm̄ lꝍtast Brædur(þ er Christner)vera/eñ eru þo Neidingiar i Hiartanu/ ad med þvilijkum skule Meñ ecke Matar-Naufn hafa/1. Cor. 5. Ad þssu undañgeingnu/þa venied og Børn yd ar til Ydne z Astundunar. So sm̄ Lete og Omeñska hefur ablad morg: um mikellra Lasta/so hefur Ydne z Elium margañ Osoma i burtu tek-ed. Høfdinge fra Athenuborgar-Mañā Solon/hn̄ sette fordū Daga/ ad sa sm̄ ecke hefde kient Syne sijnū neitt Handverk/ hn̄ skyllde ecke eiga Stiled af hm̄ Fostur i siñe Elle. Eg kañ ecke ad seigia ad þ være christe-legt/hitt seiger eg ad þ var gagnsamt/þo eg valla vite hvad sa er For-elldrumū skylldugur um̄/sm̄ er uppaleñ i Lete z Omeñsku/so hañ gietur ecke feinged sier Atviñu/þa hn̄ er fullþroska. Og þott aller sꝍe eige til þss komest ad setia Barn sitt til Menta/þa vited ad Ærlegt Erf-vide er Gude eins þægt/þvi hia hm̄ er hvørke þræll nie Frelsinge/hellder aller eitt i Jesu Christo seiger Postuleñ/Gal. 3. Þad være eige gott ad aller væru Herrameñ/eg ætla þa yrdu aller Bændur/hvad Verolldeñ eige þoler fyrer Mañaña Jllsku saker; Bondeñ vid Orfed er eins þæg ur Gude þegar hañ giører Verk siñar Kallanar/So sem Domareñ i sijnu Sæte/edur Presureñ fyrer Altarenu. Jesus var ecke til Booka settur/þvi søgdu hn̄s Oviner/hvadañ kiemur hm̄ Frꝍde þsse/Matth. 13. er hn̄ hefur þo ecke a Bækur lært? Þad skiede af Guds mikellu Rꝍ de/so eingeñ kyñe ad seigia/þad hn̄ hefde sijna Speke af Moñū. Eñ Timburmañsins Son/Marc. 6. var hn̄ kalladur/z sialfur Smidur nefn dur. Þvi er audvitad/ ad hañ mune ecke Ydiulaus vered hafa i Vng-

deme

dome sijnu/ helldur numed þad sama Handverk / þo mikla sumer epter Børnū sijnū ad læra ad leitast sijns Brauds i Sveita sijns Andlitis/ vitende ecke þ ad sa sm̄ uppelst Yðiulaus/ hn̄ er nærst þvi ad verda Ærulaus/ Þvi þeg' hn̄ kan̄ eckert ad vita/ hvad giet: hn̄ an̄ad giørt en̄ ad hlaupa med Þiofū til ad stela/ z verda sijdan̄ dreigen̄ i Gaalgan̄ til ad hanga: Margt mætte hier um̄ fram' tala/ en̄ eg læt hier vidbijda i þta sin̄/ og vil Jhuga fram̄veigis/ hvad Børnen̄ eru apt: a mot Foreldrunū skyllðug. Og hn̄ foor ofan̄ med þm̄/ og kom til Nazareth/ var þm̄ og hlijden̄ seiger Textēn. Hvilijkt er þta/ Br. M. Skaparen̄ hlijdnast Skiepnune/ Gud Mañenum/ Herran̄ Ambaattene. O min̄ Herra Jesu/ hvilijkt er Þions Mijnd þsse: Þad er ecke um̄ stør fram̄ talad/ ad þu lided hefur oss til Epterdæmis/ 1. Pet. 2. Merke þ aller þr ed under Foreldra Vallde eru/ z an̄ara sm̄ i Foreldra Stad setter eru/ Hvørsu Ovidurkvæmelegt þ er/ ad briotast a mote þm̄ sm̄ vier ecke einasta eigū sialft Lijfed/ helldur og Foostur og Upphellde ad þacka. Þier Børn vered hlijdug Fedrū ydar i Drottne seiger Paall/ Eph. 6. Þvi þ er riettvijst/ Heidra Fødur þin̄ og Moodur/ þad er hid fyrsta Bodord med Fyrerheite/ ad þier vel vegne/ og þu stert Langlijfur a Jørdune. Hvar fyrer seiger han̄ i Drottne: Þvi ecke einasta vegna Foreldran̄a/ helldur og Guds vegna a þm̄ ad hlijda. Gud er allra vor Fader/ Eph. 4. og med þvi allra fegursta Nafne hefur han̄ auglijst sijna Elsku til vor Man̄ana. Han̄ kun̄ū vier ecke ad sia og lifa/ Exod. 33. Þvi hefur han̄ sett Foreldrana i sin̄ Stad/ ad vier skulum dyrka sig med Hlijdnene vid þa. Hin̄ fyrsta Heidur og Lotningu/ hefur Gud sialfū sier stiled af Man̄enum/ þaug eru in̄ebunden̄ i hin̄e fyrre Bodorda Tøblune. Þad allra fyrsta i þre sijdare/ hefur hn̄ læted vera þad Fioorda Bodorded/ so sm̄ Hlijdnen̄ vid Foreldrana være sa Hlutur er umfram̄ adra være mest verdur/ þta er hid einasta Bodord med Fyrerheite/ z er ecke Olykende ad hin̄ Almætuga Speke sem leikur vid Man̄an̄a Børn/ Prov. 8. hafe þ giørt i þre Meiningu/ ad Ungdomuren̄ sm̄ alla Hlute vitur þ føgur Loford/ en̄ ecke hefur Vit a ødrū Dygdū en̄ Hlijdnene/ sm̄ er Rot hin̄a/ skyllde hafa eitt hvad þad ad gangast fyrer/ sem in̄ i Augun geinge/ en̄

Þott ad Gud hafe hier Tijmanlegre Blessan heited/ þa vite Men̄/ ad hitt er eige fraskiled/helldur þar s̄ þta Stundlega endar/þar tekur hid Eilijfa vid. Sæll er sa sm̄ misser nockud af Leingd Lijfdaga sin̄a/til ad naa sm̄ fyrst in̄ i Rijke Himnan̄a/ þvi leinge ad lifa er leinge ad syndga/ þ maa og ecke leinge kallast sm̄ einhvørn Tijma skal En̄da taka/ bregd ef þvi Leingd Lijfdagan̄a hier a Jørdun̄e/ þa bregdst hun ecke a Lande lifande Man̄a. Ohlijdne er Galldra Glæpur seiger Skriften̄/1. Sam. 15. Hvar fyrer? eda hvad er Galldur? Þad er Afguda Dyrkan/ en̄ sa hin̄ Ohlijdne giører sialfan̄ sig ad Gude: Þvi seiger Paulus/Rom. 13. Ad sa sem mootstande Valldstiornen̄e/han̄ mootstande Gude/en̄ hn̄ ed Forelldrunū motstendur/hn̄ giører hid sama. Þad er næsta merkelegt sm̄ ad sagde Jeremias Spaamadur/vid Sonu Jonadabs Sonar Rechab/ Jer. 35. Þegar Israel aatte ad utleidast i Herleidinguna med Kvin̄ū og Børnū/þa sagde Spaamaduren̄ i Guds Stad/til Rechabs Sona: Af þvi þier hlijddud Bodorde Jonadabs Fødur ydar / og þier giøred sm̄ hn̄ baud ydur/vardveitande øll hn̄s Bodord/þar fyrer seiger Drott en̄ Allsheriar: Þar skal ecke upprætast eirn Madur fyrer Jonadab Syne Rechabs/ad eige stande hn̄ fram̄e fyrer mier alla Tijma. Og ad Men̄ vite/ad Hlijdnen̄ar Fyrerheit naae leingra en̄ til Israels Sona/ þa voru Rechabitar framande Men̄/og ecke af Israels Sonū/ og var þanen̄ Fyrerheited teked fra Børnū Fyrerheitesins/en̄ giefed þm̄ er eige høfdu Fyrerheit. So sia Men̄ nu/ad þar er eckert Man̄greinar Alit hia Gude/helldur a øllu Folke og Tungumaalū/sm̄ giører hn̄s Vilia/ hefur hn̄ Þocknan/Act. 10. Og so sem Gud hefur i Naad sin̄e blessad Hlijdnena vid Forelldrana/so hefur hn̄ og i sin̄e Grimdar Reide Ohlijdnena straffad. Hrædeleg eru þau Ord er Drotten̄ talade vid Samuel/ 1. Sam. 3. um̄ Sonu Eli/þa þeir træssudu a mote sijnum Fødur: Jeg skal giøra eirn Hlut i Israel/ ad hvør þad heyrer/ han̄s Eyru skulu klijngia þar vid. Jeg hefe svared Eli Huse: So san̄arlega sem eg life/ad Eli Hus Misgiørd skal ecke forlijkud verda med Gaafum edur Foornfæringū ad Eilijfu. Og hvørsu margur hafe hier fyrer straffad ut vered/er oflangt upp ad reikna. Fyrer þta miste Ruben sijna Frum

gietningu/

giefningu/ Gen. 49. Fyrer þad hieck Absalon i Eykenn/ 2. Sam. 18. Fyrer þad vard Canaan/ Sonur Cams bølvadur/ Gen. 9. Þad sama uktiekke Neronis Nønd til ad myrda sialfan̄ sig/ og adrer hafa med ødru moke heingder vered. Og hvad vilium vier langt leita? Giaktu ad Oskop um þessa auma Lands/ Þar Sonuren̄ skipar Fødurnū. Faderen̄ þorer ecke ad tala i midt Noof vid Sonen̄. Faderen̄ vin̄ur Bake broknu/ Sonuren̄ sefur a bæde sijn Eyru. Fødurenn hungrar og þyrster/ Sonuren̄ er fullur og feitur. Faderen̄ hefur øngva Roo fyrr en̄ hn̄ hefur klaked þui upp/ sem hn̄ gieted hefr/ en̄ Sonuren̄ vill læta Fødurnū vera veitt i øllu þui hn̄ læst giora/ hvad þo aungvan̄ veigen̄ er/ þui Faderen̄ þigger eckert af Synenū/ þott hn̄ ale hn̄. Nn̄ giorer eige meira en̄ giallda aptur þ͛ hm̄ lenad var. Ecke þarf eg ad seigia/ ad þ͛ þ͛ka kome Nefnd Drottenis og Reide yfer Land vort/ þui þ͛ka er noog Nefnd i sialfu sier/ þar þesser/ sem so eru uppalder/ ganga Neilbrigder Bæa a mille/ þ͛ eru vorer Olmusu Men̄/ og vier fædū þa i Guds Nafne: Þad eru þ͛r ed utsiuga Nus Eckna og Føðurlausra/ og þ͛r ed drecka aftara Guds Barna Sveitta/ jafnvel þott þ͛r eige i sijnū eigen̄ ad næra sig af Jørdunne/ Gen. 3.
Solon var eitt sin̄ adspurdur/ hvar þ͛ hn̄ hefde aungvar Vidløgur hafft vid Fødur-Dræped? En̄ han̄ svarade: ad han̄ hefde alldrei þeinkt til þ͛ss/ ad þ͛ munde nockrū i Nug koma. Eg medkienne og þ͛/ og packa Gude þ͛/ ad hn̄ hefur vardveitt Land vort fra so skielfelegre Olucku i langa Tijma/ jafnvel þott þess Dæme sieu annarstadar. En̄ sa ed formæler Fødur og Modur/ Prov. 20. sa ed hæder Fødurenn en̄ foragtar Modurena/ Prov. 30. Nn̄ sem med Illu einu launar alla þa Mædu og Þiænningu/ sem hn̄s Forelldrar hafa uppa hn̄ kostad/ Nan̄ sem med Ogudlegu Athæfe/ Skømū og Løstū kvelur þ͛ Briost/ þ͛ hvøriu hn̄ boren̄ var/ so þ͛ka hefur marga Gudhrædda Forelldra til Dauda dreiged: Mun hn̄ vera langt fra Fødur-Morde? Og so sem̄ þ͛ mæ hin stærsta Glede vera ad sia sitt Afkvæme framganga i Guds Otta/ so hlytur þad ad vera hin mesta Niarta-Sorg og Nugar-Angist ad sia sijna eigen̄ Sælu illa fara. Børnen̄ eru kveikt af Forelldranna Veru/ En̄ eingen̄ hefur um̄ Allder sitt eiged Nolld hatad/ helldur fostrar hn̄ þ͛ og nærer/ Eph. 5. Zelevchus Nøfdinge þeirra i Locris/ er han̄ hafde þad i Løg leidt/ ad

sa sem tæke med añars Mañs Egta-Konu/ skyllde Augun missa / þa hendte ꝥ hñs eigeñ Son/hvar ꝧ hñ liet stijnga ut hñs þad eina Auga/ eñ sitt añad/til ad fullnægia Legmaalenu. Þad auglÿste ⁊ Psamenites Egyptalands Konungur/þegar Børn hñs voru svÿvirdt og illa utleik eñ/þa griet hñ ecke helldur eñ Steirn/eñ þegar hñ sa Vine sijna til Lijflats leidda/þa taaradest hñ miøg so/⁊ er hñ var ad Orsøkeñe spurd ur/svarade hñ þvi/ ad i Motgange Vina siña skylldu Meñ græta/eñ Barnaña Olucka være stærre ⁊ særare eñ so/ad hun tæke nockrum Taar um/⁊ allt mun helldur skorta/eñ ad þvilijkt finest eñ nu i Dag/jafnvel a medal vor. Hvad sijnest þier þa/christeñ Madur? Hvilijkur Ogiørning ur er ꝥ/ad sælga þra Hiarta med Ohlijdne og illu Athæfe/er so heitt elska/af hvørra Saalu/ þijn Saala so fast hanger/so sem Jacobs af Benjamins? Gen. 44. Þad var i Løgum haft hia Athenu Moñũ/ad sa semecke villde Foreldrana forsorga/hñ skyllde Ærulaus vera. Eg kañ ecke ad seigia ꝥ Oriettvÿst/þvi þar er eingrar Æru Von hia hm̃/ sem ecke vill uña þm̃ Lijfs Uppeldis/ sem hm̃ hefur til Lijfsins hialp-ad. Þar fyrer/Børn mijn/Giæted ad ydur ꝧ Guds saker/og leided ecke yfer ydur timañlega og eilijfa Olucku med Ohlijdne og Forsmaan For-elldraña. Þier kalled aller Gud ydar Fødur/sm̃ a Himnũ er/eñ hñ vill ecke þss Fader heita/sm̃ foragtar sijna Forelldra/þvi elske hñ ecke siñ Fødur/hvørn hñ siet/hvørsu maa hñ Gud elska/þañ er hñ sier ecke? 1. Joh. 4. O HErra JEsu Christe/ þu sem Fødurnũ hlijdeñ giordest allt til Daudañs/ja/allt til Krossens Dauda/ Phil. 2. Gief þu ad vier fyrer þijnar/ og þijns og vors himneska Fødur Saker/ verdum so allre Mañlegre Skickan undergiefner/ 1. Pet. 2. ad þu vilier oss þeckia ꝧ þijn Børn a hinum efsta Deige/nær þu kiemur ad endurgiallda sier-hvøriũ einũ epter sijnũ Verkũ/2. Cor. 5. Sier i Lage bidiũ vier goode Gud/gief Børnunũ hlijded Hiarta/og vernda þau fra vondre Verølld þessare/ so þau elske þig/ elske Forelldrana/ elske Yferbodarana/ elske Dygder og Mañkoste/Og i einu Orde ad seigia/ad þau vaxe og proo-fist ad Alldre/Vitsku og Naad hia Gude og Moñum. Bænheyr þad fyrer JEsu Forþienustu / Amen.

Añañ

# Añañ Suñudag epter Þrettanda.

## Gudspialled / Joh. 2. Cap.

Þañ Týma. Þar giørdest Brudkaup i Cana Galileæ/ og Mooder JEsu var þar. Eñ JEsus og h̄s Læresveinar voru og bodner til Brudkaupsins. Og er þa þraut Výn/ sagde Mooder JEsu til h̄s: Þeir hafa ecke Výn. JEsus sagde til heñar: Þu Kvíña/ hvad hefe eg med þig? Mýn Stund er eñ ecke komeñ. Mooder hañs sagde til Þioonustumañaña: Hvad helst hañ seiger ydur/ þad giøred. Eñ þar voru sex Steinkier sett/ epter Veniu Ebreskra Maña Hreinsunar / og hvørt eitt tock Tvo edur Þria Mæler. JEsus sagde til þeirra: Filled upp Kieren af Vatne/ og þeir filltu þaug allt a Barma. Og JEsus sagde til þra: Helled nu a/ og færed Kiæmeistaranum/ og þr færdu h̄m. Eñ þa Kiæmeistareñ smackade Vatned/ þad ad Výne var orded/ og h̄n visse ecke hvadañ þad kom/ eñ Þionustumeñerner sem Vatned sooktu/ vissu þad: Þa kallade hañ a Brudgumañ/ og seiger h̄m: Aller Meñ giefa i Fyrstu hid goda Výned/ og nær þr taka ølvader ad giørast/ þa þad hid liettara / Eñ þu hefur geimt hid gooda allt til þessa. Þetta er hid fyrsta Jardteikn sem JEsus giørde til Cana i Galilæa. Og hañ opeñberade sýna Dýrd. Og hañs Læresveinar trudu a hañ.

## Exordium.

Eg hefe Trwlofad ydur einum Mañe Christo / ad eg fære ydur hønum hreina Meyu / seiger St. Pall / 2. Cor. 11. Hvør skyllde hafa vogad ad koma so Ordum ad þeirre Einingu sem er a mille Guds og Maña / hefde ecke Guds Ande fyrstur lagt þad i Muñ sińa heilagra Maña? Og er þad þo ecke ad undra / þui Ordeñ eiga epter Hlutunum ad lýkia. J Leindardoom Holldtekiuñar vors Frelsara / er Gud samteingdur Mañlegre Natturu / þad Himneska vid hid Jardneska / þad Eilýfa vid hid Daudlega / þad Synelega vid hid Osynelega / hid Skapada vid þad Oskapta / og þad med so sterku Bande / ad ecke mæ adskilia / og þar ad auke eru þeir sem Gud elska / Eirn Ande med Christo. Þeñañ Orañsakañlega Leindardoom hefur hiñe Eilýfu Speke þocknast ad Jardteikna med Sambwd daudlegra Maña / þar Madur og Kona samañkoma i ærlegum og heiløgum Egtaskap. Nu þoott ad Himneskra og Jardneskra Hluta kuñe valla nockur Jøfnudur ad hugsast / autheldur talast edur giørast / þa er þo Eiñingeñ a mille Guds og Maña / miøg so lýk einum Christelegum Egtaskap: Beggi

la Høfundur er hiñ Almættuge Gud / Hvørttveggia hefur Kiærleikureñ sam-
teingt / so sem hrein Elska fester Gudhræddra Hioona Sæler eina vid adra / So
hefur JEsus af Eintoomre Elsku og Kiærleika ofañstiged i vort auma Hold /
og giørst Safnadarens Høfud / eins og Madureñ Kviñuñar / Eph. 5. Og Paulus
talar eñ fa nær þessu i sama Capitula / seigiande: Vier erum Limer hiñs sama
Lykama / Hold af hañs Holde og Bein af hañs Beinum / og med sømu Ordum
wtskyrde vor Fader Adam þær Tegunder sem Natturañ baud hønum / ad være a
mille hañs og vorrar fyrstu Moodur / er hañ sagde: Þesse er Hold af mynu Holde /
og Bein af mynum Beinum / Gen. 2. Þar fyrer Itrekar Paulus cirnig / hina
fyrstu Hioonavygslu / Eph. 5. med þessum Ordum: Af þeim Tveimur skal eitt
Hold verda. Vor Herra telur alleinasta Eina Orsøk til þess / ad Egta-Foolk
skilia meige / Matth. 5. Sem er Hoordoomureñ. So skilst eige Christur vid nock-
ra syndugo Mañs Sælu / þa er hañ hefur sier Eitt Siñ festa / nema hun take
framhia hønum / Heimeñ / Holded og Dioflleñ / Og þo seiger hin eiliifa Mysk-
unsemeñ / Jer. 2. Sla þeir plaga ad seigia: Ef Madur lætur Konu syna eina /
og hun geingur ad eiga añañ Mañ / Mun hañ hverfa ad heñe aptur? Mun ecke
þad Land magnlega saurgast? Eñ þu hefur Hooraner dryygt med mørgum Elsk-
uga. Snw þo aptur til myn seiger DRotteñ Gud. Egtaskapureñ er af Gude
Innstifradur / til ad fiolga Mañkynenu i Heimenum / þad baud Gud i Ondverdu /
er hañ sagde: Vaxed og margfalldest / og uppfylled Jørdena / Gen. 1. Þad Itr-
ekade hañ epter Flooded vid Noa / Gen. 9. og þess sama Ords Almættis Kraft-
ur er eñ nu nyr og ferskur / og mun verda allt til Enda Veralldar. JEsu Brwd-
ur er eirneñ nærsta frioofsøm margra Barna Mooder / heñar Vñusta Spaa / er a
heñe farsællega rætt / ad hin Einsamla hefur fleire Børn eñ hun sem Mañeñ hef-
ur / Esa. 54. Hañ hefur med H. Guds Orde Otal Barna vid heñe gieted / 1. Pet.
1. hvør nu standa umhverfes hañs Bord a Himnum / Ps. 128. so sem Pælmaf-
vidar Kvister a Vatnsbøckum plantader / Ps. 1. Þess gietur Jacob Postule /
Cap. 1. Hañ hefur sialfskrafa gieted oss med Orde syns Kraptar / ad vier sieum
nockurskonar Frumburder hañs Skiepnu. Þessu hroosar Brwdgumeñ / Es. 8.
Seigiande: Sixed myn Børn sem DRotteñ hefur gefed mier. Þar yfer fagn-
ar Brwdureñ / Es. 49. med þessum Ordum: Hvør hefur gieted þessa? Jeg var
Obyria / burtflutt og ad Herfange tekeñ / Hvør hefur uppaled þessa? Jeg var
yfergiefeñ og Einsømul. Hvar voru þesser? Christeleg Kyrkia elur Fiølda
Barna / þvi heñar Vñuste er alltyd hiñ same / og hañs Ar taka aungvañ Enda /
Ps. 102. Hañ er sa Madur Zemach under hvørium Ellyfflega grær / Zach. 6.
hvørs Ande ad lyfgar. Gydingaña Samkunda er Ein Obyria / þvi hun hefur
fleiged siñ Mañ i Hel / eñ fadmar hiñ afgamla og wtdauda Moysen / hvørs Book-
stafur ad deyder / 2. Cor. 3. Nu fyrst hinum eiliifa Gude hefur þocknast ad tekna
so hæleita Hlute med Hioonabando Samvisteñe / þa giætum þess / Brædur myn-
er / med hvad mikelle Æru og Virdingu / ad oss byriar ad vanda þa Heiløgu
Stiett. Þar um vil eg nockud framveiges tala wt af þessu heiløgu Evangelio.

Eñ þu sem oss hefur Trwlofad þier i Naad og Myskunseme / Eiliifc Sonur
lifanda Guds / Vpplys þu Hiørtu vor / so ad þetta vort Aform farsællega luck-
est / og gief þar til Naad þyns Heilaga Anda / AMEN.

Ytleggingeñ.

# Vtleggingeñ.

ÞAr Giørdest Brudkaup i Cana Galileæ/ seiger Texteñ: Og JEsu Mooder Var Þar. Sumer hafa tilgieted ad þesse Brud-Hiion hafe vered Att-Meñ Guds Modur/ og nockrer hallda ad Brudgumeñ vered hafe Johañes Postule/ þvi hañ eirn skrifar þetta/ og þeiger þo um Nøfneñ/ so sem Plagsidur hañs er/ nær hañ um sialfañ sig eitthvad merkelegt skrifar. Vm þetta er eckert vyst/ rijdur z a øngvu. Hitt er aud rꜳded/ ad hier hafa Gudhræddar Persoñur bued Rꜳdahag siñ/ þvi ecke hefde Jesu Moder ꜳtt Sess vid þau ella/ og er þ af þessu ad læra/ ad Meñ take Gudhrædda Meñ til Rꜳdaneitis mz sier/ þeg' slijkt a ad byrja/ eñ ecke hlaupa til slijkra Efna þ Rꜳd fram/ eige helldur hlijdest a Fortølur þra/ er añad hvørt sialfer ecke vita Footū sijnū Forrꜳd/ edur þ eigeñ Gagnsmuna saker steipa einū Oreindū og Fꜳtiꜳnū i þa Grifiu sem hañ mꜳ æfeñlega gista og alldrei blijdañ Dag siꜳ. J Egtaskaparar Mꜳlū er þ eins z i Strijdenu/ þar mꜳ eige villast tvisvar. Sa sem eitt siñ fiell i Valeñ/ hañ reis alldrei upp sijdañ/ z hañ s byri' siñ Rꜳdahag/ mꜳ buast vid ad tebla vid slijkañ Kost allañ siñ Alldur/ er hañ teked hefur. Jeg heyre ad Jesu Mooder var hier ad Heimbode/ og hañs Lærisveinar. Eñ hvad seiger hañ sialfur? Matth. 12. Sa sem giører Vilia mijns Fødurs sem a Himnū er/ hañ er miñ Broder/ Syster z Moder/ þ eru þr ed Ottast Gud og elska. Slijkū eiga Guds Børn epter ad leita. Eingeñ er þvilijk Heimañ-Fylgia sem Otte Guds og ærlegt Vpphellde. Abraham liet Eleazar siñ Þienara sveria sier vid Gud/ ad hañ skyllde aungva taka Syne sijnū til Egta af Canaans Dætrū/ Gen. 24. So miked þotte hm a þvi rijda/ ad Børn sijn ecke skylldu draga Ok mz Ogudlegū/ 2. Cor. 6. Drotteñ Allsheriar lagde rijkt a vid sitt Folk/ ad eige skylldu þr teingiast þm Gudlausu Þiodū/ er hañ rak ut ur Canaans Lande/ Deut. 7. Þad bar til þess/ ad eige skylldu þr villa Hiarta þra fra Gude/ og temiast a alla þa Ohæfu/ þ hvøria hiner voru utdrifner/ eda ꜳsamt þm verda fyrer Guds straungu Hefndar Hende/ er alla reidu var utrieft til ad hvølfa hinū fulla Mæler Syndañā yfer þra eigeñ Høfud. Syner Veralldar þessarar spyria fyrst allra epter

Audæfū og Rykdome/so sm̄ øll er Von til/þvi hvar þra Fiesiodur er/ þar er Hiarta þra/ Matth. 6. Nu mā þo ecke slykar Guds Gafur lasta/þegar þ eru hans Gafur/og ecke Brand hiñs Volada/Sveite Daglaunaranns/edur Hus Eckiunnar/eñ eg sie þo aptur a mot/ad Heimurenn mun fyrerfarast mz øllu þvi sm̄ i hm̄ er/1. Joh. 2. og hvør eru þa þss Not sm̄ eirn hefur sett þ sitt Gud & ædska Hiartans Traust? Þar er fliott til ad svara: Hn̄ er Gudlaus og Huggunarlaus/og auk þessa/ þott vier skylldū epter Mañlegū Plagsid tala/ þa iata eg þad satt ad vera/sem hn̄ sagde fordū: Eg vil helldur Mañenn sem Peningenn brestur/helldur eñ Peningenn þañ er Mañenn vantar/þvi hvad skal Audur eñ hinū Arga/edur Bogenn þm̄ er eige kañ ad nyta hn̄? Þad være eins & ad kaupa margar Hørpur handa þm̄ sm̄ ecke kañ a Hørpu/eda Bækur fyrer þañ sm̄ ecke hefur lært a Bok. Audur er godur þm̄ er kañ ad bruka hn̄/hinū er hn̄ eins og røgū Mañe langt Vopn/ eñ eingeñ veit þa Kunst/nema sa sem Gudhræddur er/ og giører sier Vine af hinum gamla Ranglætis Mamona/þa ed medtaka hn̄ i eilyfar Tialldbuder/Luc. 16. Og i stuttu Maale ad seigia/sa er einast a Auds verdur sm̄ Audeñ forsmaaer/ Ecke þ hn̄ fyrerlyte Guds Gafur edur kaste þeim a Glædur/helldur fester ecke Hiarta sitt þar vid/og lætur ecke Mamon drottna yfer sier/ helldur drottnar yfer hm̄. Og fyrst þssu er so vared/ þa er ecke ad stægiast til Audsins sem a ad vera Þrælleñ / helldur til Guds Otta sem a ad vera Herrañ. Adrer eru giefner þ Attū og gøfugu Forelldre/þ er ad søñu ægiætt/þvi tydar ber þ vid/ad goder koma af goodū/ og Stoormeñe hafa betre Raad til ad ala upp Børn syn ef þr villa vel/helldur eñ Smælingiar. Þo er allt holldlegt þ af Holldenu er fædt/Joh. 3. og aller eigū vier til Adams ad telia/og ecke taka Meñ allyd Dygdernar i Arf. Jeg vil helldur ad eirn giøre Abrahams Verk/eñ ad hn̄ sie Abrahams Sonur/þvi lytt gagnar þm̄ gøfugt Afspreinge/ō meir er til Minkunar Ætt siñe/eñ hun kyñe ad vera hm̄ til Sonia/ & næst er þ hvøriū sm̄ sialfur er hn̄. Þr sm̄ þa hafa eñ mikla Vit/þr gangast þ Lit/ og so ætla eg allmarger binde þ Sattmaal/sm̄ eingeñ mā riufa so ad Skøpū fare/nema Daudeñ. Fagurt Gots er

þad

þ ad sönu en̄ nærsta fallvallt/ þvi allt Holld er Hey/ z allur þss Blome so sm̄ Gras Akursins. Þegar Guds Ande blæs þar a/ þa visnar þad/ seiger Rødd Hroopandans i Eydemørku/ Es. 40. Lijtell Kville/ eitt Oforvarandes Tilfelle/ ein Myfluga/ sem er hid mīnsta Kvikende/ kan̄ ad eyda Mannsins Frijdleik z hn̄s Styrk/ so þar er ecke epter af. Dygd en̄ er ein/ so sem hiñ gamle Cicero sagde/ sm̄ er med diupū Rootū nidur fest/ hvør alldrei veikiast kan̄/ og alldrei ur Stad ad hræraſt/ og ef hn̄ hafde so miked Traust a Dygdeñe/ sm̄ þo kuñe ecke ad meta hana ødru vijse/ helldur en̄ añar Neidinge: Hvad dijrt ætter þu þa christeñ Madur Gudhrædsluna ad kaupa/ sm̄ er til allra Hluta nytsamleg? 1. Tim. 4. Giefed mier þessa sagde Samson hiñ sterke/ þvi hun þocknast mijnum Augū/ Jud. 14. Þad vær diupvitur Røksemd þ Doomaran̄ i Jsrael. Dalila þocknadest og so hans Augū/ En̄ han̄ vard añars var/ þegar hun olle þvi ad hn̄ blindadur var a þm̄ somu Augū/ er komu hm̄ til ad gyrnast hana/ Jud. 16. Og mæ af hans Dæme læra þ/ ad so verde a Svinū sm̄ Osvinū/ En̄ hvørnenn sm̄ hm̄ er fared/ þa ætla eg ad marg ur en̄ nu i Dag gyrnest þ er hn̄ glæpest a/ og sana so sijdan Ordskvid Salomonis Konungs / er best visse af slijku ad seigia/ Ad vond Kona sie eins z Reykur i Augunū. Epter øllu þssu spyria nu heidnar Þiood er/ Matth. 6. og þr sem eins eru lynder/ En̄ hvørt nockur elsk" Gud edur ræker sijn̄ Christeñdoom / edur hefur JEsum ad Heimbode/ þar spyria fæer epter af oss/ sm̄ þo læʒunst Christner vera/ og eg hefe O-vijda heyrt adspurt i Lande voru/ hvørt eirn sm̄ leikar Konfangs Ott ast Gud/ hvørt hn̄ ræker hns Bodord/ hvørt hn̄ giefe Olmusu nema fyrer Fordilldar skulld/ hvørt hn̄ være riettsijn/ astundunarsam i sijne Kallan edur eige/ hvørt hn̄ hefde Sine edur Hiarta til ad voga nockru Omake edur ødrū Munū uppa sijna z añara Velferd/ eda hefde adrar Christelegar Dygder til ad bera. En̄ hvørt hn̄ rijkur være/ kyñe vel ad hræsna þ Møñū/ kyñe ad koma so Aru sijñe fyrer Bord/ ad hn̄ giæte a einhvørn Hatt stopped Mynkunarlaust fyrer Almuga / kyñe vel ad hylia Ulfen̄ under Saudar-Gæruñe/ Og i einu Orde ad seigia/ stela/ svijkia/ liuga og ræna/ under Hylmingu Gudræknessar og Hoglætesins/

Syne Jonatans Vinar syns / 2. Sam. 9. edur Vin synum Barsilai / 2. Sam. 19. Enn ad þeir skylldu eta Braud vid hans eiged Bord. O hvylyk Æra er þetta þa / B. M. ad Konungur Dyrdarennar setur oss vid sitt eiged Bord? Hann framreider þat / ecke eirn aleet Kalf / eins og Fader hins tynda Sonarens / sem geteur um i Eptterlykinguñe / Luc. 15. Helldur sialfann sig þad Saklausa Guds Lamb / sem fra Veralldarennar Upphafe slatrad er / Apoc. 5. Hungrudum til Sadningar. Nathan Spamadur kunne ecke ad fæ annad Vigtugra til ad syna David / hvøsu miøg hinn Fatæke Madur hefde elskad þann Sauden sem hinn Ryke took fra hønum / helldur enn þad / ad hann gaf hønum ad eta af synum Braudbita / og ad drecka af synu Klere / 2. Sam. 12. O JEsu / vier erum þyner volader Sauder / þu hefur auglyst þinn brennande Kiærleika i mørgum þynum Velgiørningum / enn þo hvad mest i þvi / ad þu hefur gefed oss þitt Holld ad eta og þitt Blood ad drecka / þad sama Holld og Blood sem a Krossenum hieck og uthellt var / enn nu situr til Kraptarens hægre Handar til ad byrtast fyrer Auglite Guds / til ad afmæ Syndena med Foornfæringu sialfs þyna / Heb. 9. Þu hefur til þessa Gestabods kallad Fatæka / Vanada / Hallta og Blinda / Luc. 14. Þad er oss allmar syndugar Manneskiur / hvøria Syndenn og Diøfullenn svo illa høfdu utleiked / ad fra Hvirfle og allt til Ylia var þar ei nema Saar / Beniar og Þrote / Esa. 1. Enn eg Ottast nærsta miøg ad þetta Lykar sinnest vor a medal / er St. Paall svo hardlega atelur fyrer Ofsidsemi þeirra og Vanrækt a þessu Himneska Bordhallde / þat hann seiger til Corinthios: Þessu hroosa eg ecke ad þier samankomed ecke til hins Gooda / helldur til hins Verra eins / 1. Cor. 11. Þo giefur hann þeim og eitt agiætt Bodord / hvørnenn þeir skule tilreida sig under þessa H. Nautn i þessum Ordum: Hvør Madur proofe sig sialfur / og ete svo af þessu Braude og drecke af þessum Kaleik. Og ecke einasta hefur hann þeim þad gefed / helldur og øllum Christnum Mønnum / er med þessum Hætte villia kunngiøra Dauda DRottens / Hvar fyrer eg vil og ut af þessum H. pistle tala um þa sierlegustu Hlute er heyra til Christelegs Undirbuunings þessarar þaatiku DRottens Kvølldmaaltydar. Hinn goode Gud virdest ad styrkia oss hier til med Naad syns Anda i JESU Nafne / AMEN.

## Utleggingen.

ÞAd a ad vera oz allkunnugt / Br. M. ad i Skyrnenne hef Gud giørt eirn Naad Sattmaala vid oss auma Menn / þar vier fædunst i Heim þennann / dauder i Syndunum. Nu er oss þad vitanlegt / ad vier Daglega riufum þennann Samning / ecke alleinasta af rasande Raade / helldur og optsinnis med Vilia z Asetninge / enn þvi vallda Guds diupu Myskunar Ydur / ad vier eigum Kost a ad nyiu ad forlyka oss vid hann / z til þess hefur hann sett z innstiptad þ. H. Altaresens Sacramentum / i hvøriu vor Skyrnar Sattmaale verdur ad fullu endurnyadur / Guds Naad ad nyiu framboden sann

ydrande Manne/og hn̄ avallt skulldbunden̄ til ad giora verduga Avøxtu Ydranenne/Math.3. Þad vill Drottenn̄ boded hafa/er hn̄ seiger hia Lucam 22. Cap. Svo opt sem̄ þier giored þetta/drecked þ i mijna Minning/ Hvad Paulus i Textanum̄ kallar ad kunngiora Dauda Drottens. En̄ hvilijk a þesse Minning ad vera/Br. M. ? Ecke svo sem þegar vier drecku Konungsins Skaal/edur Vina vorra og Naunga/þ være ad giora lijtinn Greinarmun a Lijkama Drottens og annare Fædu/helldur eigum̄ vier þess ad minnast med Hiartans Angre og Trega/ad vorar Bloodugar Jll giorder hafa Dijrdarennar Herroga Krossfestann/ad oss verde þær þ hans Dauda og Forþienustu alldeilis tilgiefnar/ef vier ydrunst af Hiarta. So er nu Christeleg Ydran so ad seigia/hin fyrsta Trappa sem̄ liggur upp ad þessu Nadborde Drottens. En̄ þess er ad giæta Barn Guds/ ad hun sie heil og alvarleg. Christur giørde ecke um̄ Gaum ad lijda þ Synder þijnar/Þu ætt og ad lata þig af insta Hiartans Rootum̄ anngra þad/ad þu hafer hann modgad og modger Daglega. Hier til heyrer nakvæm og grandgiæfeleg Þeinking Guds H. Boderda: Hvornenn maa hn̄ þeckia Syndena/sem ecke er sannfroodur um̄ Guds Vilia? En̄ hvørsu maa sa ydrast Syndarennar/er hana ei þecker? Og sa sem̄ ecke ydrast/ hn̄ etur og dreckur Overdugur/en̄ hn̄ ed þ giører/er sekur vid Holld og Blod Drottens/seiger Paulus i upplesnum̄ Texta. O hvørsu hrædeleg mun þesse Sekt/christner Menn. Vier kynnum ad leida oss i Hug/ad þeir ed ofsvitande athugalaust og Overduger ganga til Guds Bords/þeir væru ecke ollu minna seker i Auglite hinns Riettlæta Guds/en̄ þr sem̄ hn̄ Krossfestu/þvi þr hafa Christi Vitne þar um̄/ad þr ecke vitad hafe hvad þr gierdu/Luc.23. En̄ þ maa hvørium̄ einum̄ Christnum̄ Manne vera vitanlegt/ad Gud hefur sendt Son sinn i Heimenn synduga Menn Saalu holpna ad giora/z ad hn̄ sialfr hefur giefed sitt Lijf ut þ sijna Saude/ Joh.10. Hvøriu til Stadfestu hn̄ giefur oss sitt Holld ad eta og Blod ad drecka. Edur seiged mier/Hvad er þ sem̄ Paulus til Heb.10. kallar ad foottroda Guds Son? og ad hallda Sattmaalans Blood almennelegt/med hvøriu vier erum endurkeipter. Mun þ ecke stappa nærre þvi/ þ hier stendur i Textanum? Ad Giøra Ecke Greinarmun a Drottens Lijkama.

Lijkama. Hvad er þad añad/ eñ ad hallda hñ almeñelegañ? Eñ Paulus
seiger/ ad þr ed þvilijkt giøra/ ete z drecke sialfum sier Doom/ þ er/ ad þr
giøre sig eilijfrar Fyrerdæmingar seka/ nema þeir rade Boot a slijku og
ydrist af Hiarta. Kome þier þvi til Hugar syndugur Madur/ ad þu ecke
hafer so verduglega geinged til Guds Bords/ sem þ hefur byriad/ þa
orvænt þier ad sønu ecke Guds Nadar/ helldur ydrast/ og læt þier ei
til Hugar koma ad bruka þssa hiælpsamlega Naudn/ fyrr eñ þu hefr
lært ad reina og profa sialfañ þig svo sem byriar/ þvi þu sier hvilijkañ
Næska þu ert vidomeñ/ nær þu stendur vid Herrans Bord/ nema þu
gialldir Varhugn vid. Drag þo ecke slijkt undañ med Toomlæte og
ødrū Vmsvifū/ þvi þu sem ert sañfærdur þar um i Hiarta þijnu/ ad
þu optlega hefur Onijtt þiñ Skirnar Sattmaala: Þier mætte til Hug-
ar koma/ sem fliotast og opstast ad forlijka þig vid Gud i H. Altaresins
Sacramento. Þar fyrer/ þott eingeñ eige svo Ofrodur ad koma i þeñ
añ H. Stad/ þa afsakar þ hñ ecke ad hñ hefur ei vered sier ut um Þeck-
ingu Guds Bodorda og riettañ Skilning a sijnu Saaluhialpar Efnū/
þvi sa sem añ Løgmaals syndgar/ hñ mun añ Løgmaals fapast/ seiger
Paulus/ Rom. 2. J Skirnene verdur oss uppa løgd almeñeleg Hlijd-
ne Guds Bodorda. Vm hana erum vier skylldugir/ þa vier drøgunst a
Legg og giefū lært ad kuña nockra Grein Jlls og Goods. Sie þier þvi
fyrst umhugad/ christeñ Madur/ hvørt þu ert ungur edur gamall/ ad þu
gænger smaasmuglega i giegnū øll Guds Bodord/ med allre Athygle/
Rañsaka hvad i þm er boded edur bañad/ hvøriar Dygder i hvøriu eru
bodnar/ z hvørier Lester edur Klæker þar eru bañader. Nockud af þssu
er ad sønu giort i þm Bokū/ er hlijda til vors Barna Lærdoms/ jafn-
vel þott eg Oska villde ad þad være nockud greinelegar brijnt þ Vng-
domenū og Fæfroodū/ helldur eñ almeñelega gioreft/ svo þeir lærdu ad
þeckia Edle z Nattfalag christelegra Dygda/ hvar af Vanart z Oedle
Glæpaña er audþeckt. Þeink og ecke ad vondar Hugreñingar sieu ecke
Fordæmañlegar Synder. Til hvørs seiger Endurlausnareñ/ Matth.
5. Ad sa s lijtur eina Konu til ad girnast hana/ hñ hafe alla reidu drygt
Hoor med heñe i sijnu Hiarta: Hvar þ seiger hñ/ sa sem reidest Brodur
sijnum/

ſijnũ / ſie Raads ſekur? Þvi ſagde hañ vid Phariſæana: Hvar fyrer huxed þier ſo Jllt i ydrum Hiørtũ? Matth. 9. Drage eingeñ ſialfañ ſig a Tælar/ til þeſſ er hiñ alſkigne Gud Hiarknaña og Nyrnaña Rañſakare/ Jer. 17. ad hñ dæmer allt hvilijkt og fordæmer a oſſ/ nema vier þeſſ ydrunſt af Hiarta eins vel ſem Orda ꝛ Verka/ Og hvad ſem hñ hef ur bañad ad giøra og tala/ þad hefur hñ og bañad ad hugſa. Og uppa þ Ydraneñ kuñe ad nockru Leite ad ſambiooda Stærd Syndareñar/ þa athugum Grandgiæfelega Mismun þra/ epter þra Hætkalage og Atburdum/ Tilgaange og Orſøkũ/ er oſſ droou þar til/ eñ eingeñ kañ ad jæta edur ydraſt riettelega þrar Syndar/ er hñ þecker ecke Stærd heñar og Jllſku/ og traudt kañ Madureñ ad læta af þm Glæp/ ſem hñ ecke veit hvøria Verkan hefur haft i ſier edur hvad ſig hefur tildreiged ad drygia hñ. Þar eru til Ovitañlegar Synder/ ſem ſkie añadhvørt af þvi ad Meñ vita ecke hvad gioreſt/ ſo ſ Pall/ er hñ ſagdeſt ei hafa vitad ad þ var hiñ ypparſte Kieñemadur til hvørs hañ talade/ Act. 23. Edur Mooder þra Zebedei Sona/ er ei viſſe hvørs hun beidde/ Matth. 20. Þær reiknar Gud ecke Endurfæddũ Mañe til Syndar/ þvi eingeñ Fordæming er a þm/ ſem eru i Chriſto Jeſu/ Rom. 8. Eñ þo med þvi mote/ ad Vanvitſkañ kome ecke af Aſetninge til ad ſyndga/ ſo Meñ vilie ecke læra Guds Vilia til þeſſ/ ad ei þurfe epter hm ad lifa. Lijkar þeſſũ eru þær ed Meñ giøra af raſande Raade/ af Gleymſku/ af Bradræde/ ſo ſem þegar Petur hioo Eyrad af Malchus/ Joh. 18. þegar Læreſveinar ner þrætudu um/ hvør þrra meſtur være/ Marc. 9. þegar þeir villdu kalla Elld af Himne/ Luc. 9. Þeſſum Syndum er hiñ goode Gud og ſo Nædugur/ þott þær i ſialfũ ſier ſtorar ſieu/ hvar uppa allſtadar Dæme eru/ Eñ oſſ byriar grandgiæfelega ad taka Vara a Lijfernis Hættũ vorũ/ og læra ad þeckia Breſte vora/ añars mun Bradræded og Vangiætſlañ ecke afbæta meir þeſſhatt Synder/ helldr eñ Vanvitſkañ hin ar. Nu eru þo Synder/ ſem Meñ drygia þvert a moote Samvitſkuñe/ og ad heñe Naudugre/ hafande ad øngvu Guds Bod ꝑ einhvørs Tilgangs Saker. Þvilijkar Synder kuña ad verda ad ſtoorũ Syndũ/ þott þær ſieu ſmaar i ſialfũ ſier/ Og þad ſem ecke er Synd i ſialfu ſier/ þad

reiknaſt

reiknast fyrer Synd nær Mens ælla þ̄ mune vera Gude a moote/ eñ giøra þad ei ad Sydur/ þvi hañ dæmer epter Asetningenum/ og ecke epter Vitsmunum. J Selskap þessara Synda var Aaronis og Mariu/ er þau møgludu i giegn Gude og Moyse/ Num. 12. Davids þegar hñ tok Husfru Vriæ Hetiters Frillutake / eñ sloo Boonda heñar i Hel med Sverde Amons Barna/ 2. Sam. 11. Þessar Synder verda ei af þvegnar nema med heitū ydrunar Tarū/ þvi storSaar þurfa mikla Græd slu/ Eñ hiñ Riettlaate Gud er vandur ad Virdingu siñe/ og lætur ei ad sier hæda/ Gal. 6. Þess er og ad giæta/ Br. M. ad þær Synder/ sem oss jduglega henda / þær reita hiñ Myskunsama Gud nærsta miøg til Reide / þvi þad mætte sijnast ad Meñ med soddañ Ogudlegu Athæfe giørdu Leik til þess ad styggia hñ. Oss verda Syndernar med þvi Forsorde tilgiefnar/ ad vier leggiū af vora Jllsku Breitne. Lærū af Jllu og lærū Gott ad giøra/ Esa. 1. Þvi ef vier æfū þañeñ Syndena/ jafnvel þott vier lækunst ydrast heñar/ þa mætte virdast ad hinsfidarsta Synd hefde forbroted Fyrergiefningu allra hiña/ eñ eingeñ veit hvort hñ fær Toom til ad ydrast heñar / edur hvort Gud vill liena hoñū ydran til Apturhvarfs ( sem Paulus ad Orde kiemst/ 2. Tim. 2. ) er svo leinge hefur giørt Handverk af Syndeñe. Þar fyrer kyriar øllū þeim er til Guds Bords ganga/ ad athuga/ ad þær Synder er oss henda epter þ̄/ ad vier høfū lofad Gude Betrun Lyfernesins/ þær eru þijngre og orka meire Hegningar/ eñ hinar er vier adur giørdum/ þviad i þessu Sacramente verdur Skyrnar Saattmaaleñ endurnyiadur/ sem adur er sagt/ og vier verdū ad Nyu Tryggrofar vid Gud/ nema vier af fremsta Megne leggiū allt Kapp a ad hallda vor Sære. Vid þessum Syndū er flestøllū nockud hætt/ jafnvel þeim sem ecke eru langt fra Guds Veige/ og þær henda Guds Børn a stundū/ Eñ um̄ þa vil eg ecke tala/ sem eru so Samdauna vordner Rænglætenu/ ad þr ecke þeckia Syndena fyrer Synd/ þott þeir vite ad Gud hafe bañad hana/ þeir Leidriettast ecke vid Guds Straff og Aløgur / þeir taka Syndena i Forsvar / og vilia riettlæta hana/ reidast Guds Þienurū edur og goodum Viñū sijnū þa þeir aavaldet verda. Þeir elska Syndena ecke alleina a sialfū sier/ helld-

ur ꝛ samsiña þeim er hana giøra/ Rom. 1. Þad hender Guds Børn/ ad þad gooda sm̃ þau vilia giøra/ þad giøra þau ecke / Rom. 7. Eñ Þsser elska eckert Gott ꝛ hafa Gaman af Jllu / bæde hia sialfũ sier ꝛ ødrũ/ lockande adra til vondra Verka/ og eru i þvi so sem nockurskonar Vm̃bodsmeñ Fiandans / þvi þad er hñs Embætte. Þessa nefner St. Pall/ 1. Tim. 4. forbrenidar Samvitskur/ og munu þeir verda tller Apturhvarfs/ nema þeim sie i Tyma Grædslu leitad. Nu er eingeñ Efe a þvi ad soddañ Makeskiur fiñast i Guds Kyrkiu / fyrer þvi verd eg hier um̃ ad tala/ þvi þa er Gudleysed komed a hina efstu Trøppu/ og gietur varla hærra stijged/ og eingeñ Hlutur er þeim vijsare eñ eilijft Helvijtis Baal/ nema þr læte sig Leidriettka af Guds Anda. Og er þad ecke noog Christeñ Madur/ ad þu lærer ad þeckia Syndena af Yfervegan Guds Bodorda/ edur heñar Hættalag af þvi sm̃ nu er sagt. Þu ætt þar ad auke/ ad rañsaka þitt eiged Lijferne/ ꝛ gançar tarlega i Riett vid sialfañ þig. Þad var Olucka vorra fyrstu Forelldra/ ad þau lærdu ad þeckia hid Jlla/ Gen. 3. eñ Gud er svo hagur/ ad hñ kañ ad giøra gooda Hlute af vondũ/ og þvi kañ Þeckeng Jllskuñar ad gagna oss til Sæluhialpar / þo meir a sialfum oss eñ a ødrum. Þad er ecke Mañvant ad þeckia hvad Jllt er i añars Fare/ eñ sa sm̃ dæmer sialfañ sig/ hñ verdur ecke af Drottne dæmdur: Þad skiedur nær Meñ bera Lijferne sitt/ Ord/ Giørder ꝛ Hugreniñgar samañ vid Guds Løgmaal/ eñ þar yfirsiest margur vid/ sumer þss vegna/ ad þr ætla/ ad þar mune ecke so skarprar Rañsoknar vid þurfa/ adrer hiñs/ ad þr kvijda vid ad yfa sin funu Sareñ/ þvi þau svijda magnlega nær þau rañsøkud eru m̃ Løgmaalsins Brodde/ giætande ecke ad þvi/ ad soddañ verkar þo eptera fridsamlegañ Avøxt Riettlætesins/ Hebr. 12. færa Meñ þvi alla Hlute sier til Vm̃botar/ ecke einasta þ ødrũ/ hvad ecke er so ad sia/ helldur og fyrer sialfũ sier og Dome sñar eigeñ Samvitsku/ so ad hñ sm̃ langt er fra þvi ad elska Gud um̃fram̃ alla Hlute/ hñ kallar sig vel hafa giørt og afloked þre Skylldu/ ef hñ les Bæn sijna Kvølld og Morgna/ edur sijngur honum eirn Psalm til Dijrdar. Sa sem er giarn a Bloot og Svardaga/ nefner þ Nafnsle Ørde. hñ sm̃ afræker Guds Hvijldardaga/

nefner

nefner þ Afvundan ꝛ Idiuseme. ef Meñ formæla ecke Fødr ꝛ Modur/ jafnvel þo þr sieu þm̄ Ohlyduger i øllu þvi sm̄ þr þora/ ꝛ ef Forelld-rarner klæda Børneñ ꝛ fæda/ þo þr lijde ad þau alest upp i øllu Reide-leyse/ ꝛ jafnvel sumer i Skømū ꝛ Odygdū/ þa þykiast Meñ hafa giørt e-mikeñ Part Skylldu siñar: Sa s̄ Reideñ er ꝛ Heiptrækur/ hñ kallar þ Hugprÿde. Hiñ Lauslæte vill læta Oskyckanlega Umgeingne heita Mañudleika og Kurteyse. Hiñ Agiarne nefner sig Framsÿnañ og For-simlañ. Þeg" Meñ ecke bera opeñberlega falskañ Vitnisburd edr sveria Lÿge uppa siñ Naunga / þykiast Meñ vera skilder vid hid Attunda Bodord/ og kañ skie sumer hrædest þo meir Doomarañ eñ Gud/ eñ ecke eru Meñ so liufer a þ alltÿd ad bera Sañleikanū Vitne. Litla Smæ Skreytne edur Svigurmæle um̄ siñ Naunga/ Lausmælge/ Roogburd a millū godra Vina/ edur Illt Umtal i Høfdingiaña Eyru/ þad teikna Meñ sumer ad øngvu/ eñ sumer ad hversdags Brestū/ sem Gud mune audvelldlega stÿga framyfer/ þott Meñ ydrest þess ecke miøg/ edur æfe þad ad Gamne sier/ epter þ þr hafa feinged Fyrergiefning Syndaña/ athugande ei þ/ ad þvilÿkt er nærst til ad fordæma Syndarañ/ sm̄ fyrer litla edur øngva Synd er hallded. Þvi seiger Lausnareñ: Sa sem upp leyser eitt af þessū miñstu Bodordū / hañ skal miñstur kallast i Him-narÿke/ Matth. 5. Þad er/ hañ skal þar alldrei iñkoma. Þañeñ byggia Meñ Odygdunū/ Andskotans Dætrū/ Heima-Jørdena/ sm̄ er Hiartad/ af hvøriu framkoma vondar Hugsaner/ Mañslög/ Hoordomur/ Frillu lÿfe/ Þiofnadur/ Falsvitne/ Gudlastaner/ Matth. 15. Eñ reka Dygder-nar/ edur rietttara ad seigia/ Mynder Dygdaña i Hiæleigurnar/ sm̄ eru Lække vor ꝛ utvortis Hegdan til þss ad forsvara Heimagardeñ/ og byrk-ast hvør fyrer ødrū/ eñ Meñ giæta ecke ad þvi/ ad hñ sm̄ Augad hef-ur skapad/ Ps. 94. Hañ sier hvad i Myrkrunum er huled/ þvi skylldu Meñ þa vilia fegra sitt Mal fyrer hm̄. Þvi dylia Meñ Siukdoom-eñ fyrer Læknarañū/ þvi striuka Meñ Purpura-Litnū yfer hin funu Sarreñ/ þad heiter ad færa Christ i eina Purpura Kapu / ad dylia þ hm̄ Meinsemder sÿnar/ eñ ætlast þo til Lækningar af hm̄/ eins og þr kiefu sm̄ hañ Konungur være/ eñ hielldu hañ þo fyrer Illrædis Mañ.

Guds Sonur maa ongvan̄ Hooru-Farva lyda a sine Brude/ ecke meir
en̄ Gud villde lata bera Skiækiu edur Hunds-Verd in̄ i sitt Helgedom/
Deut.23. Þar fyrer sie þad Alyktan þessa mijns Maals/ad þegar þu
christen̄ Saala ætlar ad trulofast þijnum Brudguma i H. Altaresins
Sacramento/hvar þu att ad verda eirn Ande med hm̄/ og Limur hn̄s
Lijkama/1.Cor.6. þa lat alla Hræsne fiærre vera. Ran̄saka þin̄ Lif
nad sem̄ adur er sagt/ber eckert i Bakeslaka fyrer þier hia hm̄ sem̄ veit
hvad mz Mañenū byr/Joh.2. Skignst epter hvad þier hefr framfared
a Guds Vegige sydan̄ þu seinast lofader þijnū Frelsara Trygdū/hvort
þu hefr tamed þitt illfusa Holld um̄ nockurn Lost er a þig stridt hefr/
og hvoria Atburde þu haft hefur til ad krossfesta hin̄ gamla Mañen̄.
Rom. 6. Yfervega hvorsu stoor Herra þad er sem̄ þu modgad hefur/
ad hn̄ hefur Valld til ad kasta Lijfe z Saalu i eilijfan̄ Elld/ Matth.10.
Og þo er hn̄ so þolenmoodur og goodgiarn/ad hn̄ hefur sparad þig og
latid allt epter þier midt i Syndunū/z kan̄ skie valla feinged eitt Þack
lætis Ord þar fyrer af Munne þijnū/ hvorn þu hefur til alls an̄ars bruk-
ad/ Hugleid fra Dæme sem̄ ecke hafa meir syndgad en̄ þu/hvorsu Gud
hefur hegnt a þeim̄ Ovirdingar sin̄ar. Lat so þijna Illsku kien̄a þier/
og þitt Frahvarf giora þig vitran̄. Þeck og hvorsu illt og beiskt þad
er/ad þu hefur yfergiefed Drottenn Gud þin̄/Jer.2. og þegar þu þad
en̄ giorer/þa giefur þu varla fared a mis vid þ/ ad Hiarta þitt bræd-
ne i þier so sem̄ an̄ad Vax / af Ihugan Guds Naadar / af Þeckingu
Syndan̄a/af Epterbid Helvijtis Pijslar z þier eru bunar/nema þu ydr-
est af Hiarta. En̄ vilie ecke hier mz aværkast/þa lat samt ecke af ad
bidia Gud um̄ sin̄ H. Anda/ sa ed skape hreint Hiarta i þier/ og giefe
þier nyian̄ vissan̄ Anda/Ps.51. hvers hn̄ maa þui ecke synia vegna sin̄a
Fyrerheita/ þvi ef Madurenn stood upp a Nattarþele / til ad faa Vin
fijnū þ hn̄ vidþurfte/Luc.11. Ef hin̄ ranglaate Doomare/sem̄ hvorke
Ottadest Gud nie Men̄/ef han̄ liet skipast vid þrabeidne Eckiunnar/
Luc. 18. Ef vier sem̄ vonder erum/kun̄ū ad giefa Bornū vorū goodar
Giafr/ hvad miklu framar mun vor himneske Fader giefa þeim̄ H. An-
da sem̄ hn̄ þar um̄ bidia/Luc. 11. Þetta stendur æfinlega stodugt/ þvi
hann

hñ er trú/ sialfūi sier kañ hñ ecke ad neita/ 2. Tim. 2. Þess heitara sē þta Angur er/ þess þægra er þad Gude/ allt fram til þss ad þu taker til ad efast um̄ Guds Náad/ eñ vid þvi er ecke hætt/ hañ mun fliootur verda til ad læta Truna lifna/ nær þu ert so a þig komeñ/ z synd þier Krapt syns Sonar Forþienustu/ med ølluñ hns Velgiørningū/ þa heiter þad so: Sæler eru þeir sem hungra og þyrsta epter Riettlætenu/ þvi þeir munu sadder verda/ Matth. 5. Þar fyrer Guds Barn/ þu hvørs Hiarta hns Ande hefr sundurmared med Þeckingu Syndareñar z Guds Giæsku/ þu skallt þess fulløruggur vera/ ad hvar sē ad Syndeñ yfergnæfer/ þar yfergnæfer Nádeñ miklu framar/ Rom. 5. Fyrer þvi / nær þu stendur vid Drottens Bord Raudur af Ovirdingu vegna þiña Synda eins og Ephraim/ Jer. 31. Þa lyst Truarekar Augum a þad saklausa Guds Lamb/ sē burt hefur bored Heimsins Synder/ Joh. 1. hvørn Gud hefur þar fyrer sett til Náadarstools fyrer hans Blood/ Rom. 3. Hañ er Forlikun ecke einasta fyrer þra Synder er lifdu á hns Døgū/ helldur allrar Verølldareñar Synder/ 1. Joh. 2. Þar fyrer er hñ og fyrer þynar/ hvørsu miøg sem þu ert hinū versti Lystū hladeñ/ þvi harmþrungeñ z sundurknosadañ Anda/ mun hñ ecke fyrerlyta/ Ps. 51. og til Stadfestu þar um̄/ giefur hñ þier i H. Altaresins Sacramente þañ sama Lijkama sē broteñ var fyrer þig/ seiger Páll hier i Textanū/ þ skiede þegar þynar Synder er hñ bar uppa Trieð/ þegar þær mørdu hns allraheilagasta Lijkama i sundr a Krossens Galga/ þegar Oguðlegra Mañaheendur niðurbrutu þ Musteret er hñ sialfur upp byggde aptur a þridia Deige/ Joh. 2. þier til Riettlætis. Hafe nu hin eilijfa Giæska sparad þig ned i þeim Syndunum sem Krossfestu hñ/ þvi mun hañ þa ecke Nádugur vera / þar þu ert a Veigenum ad hverfa aptur fra þeim ? Eñ þott ad Yrdraneñ og Trueñ sieu fullnoogar til ad ødlast Kvitkun Syndaña hia Gude/ þa kañ þo hvørug þeirra ad standast fyrer utañ nyia Hlydne/ þvi nema so sie ad nockur hafe fastlega ásett ad sporna vid þeim Glæpum / hvørra Miking ad hñ vard so beisk i Ydraneñe/ þa er þad heima hia hm̄ er Petur seiger/ 1. Epist. 2. Ef ad þr epter þ þr hafa um̄flued Saurganer Heimsins

þ Þeckingu Drottens vors Jesu Christi/flæktast i þm aptur og verda sigrader/þa eru þra hin skdare Kior verre hinū fyrre/þvi betra hefde þm vered alldrei ad hafa þeckt Veg Riettlætesins/en ad þeckiū hönū ad hverfa fra þvi helga Bodorde/sem þm er i Hendur feinged. Enn þ Hender þa/sm seiger i hinū sañа Ordshætte/ad Hundurenn geingur aptur til Spÿuñar/og Þveiged Svijn velltet sier i hinū sama Saur. Nu fyrer þvi ad hier er ecke vid ad dyliast/en syndumspillt Náttura er eitt Ofamed Dyr/þa er rádlegt ad taka til ad leggia vid hana Beisled nockru mádur en Menn fara ad forlijka sig vid Gud i Sacramentenu/nema Menn hafe þ mádur giort længvaranlega/ö þo mun siallofeinged. Eingen vond Tilhneiging sem ecke er ad nockru Leite deydd/má fylgia oss/christner Menn/til þessa Bords. Ef Synden lifer i oss/þa erū vier dauð er i henne/en eingenn giefur daudū Manne ad eta. Þetta er andleg Fæda/ & þvi hlijtur sa andlegu Lijfe ad lifa/er hana medtaka skal. Braudeð og Vijned medtaka aller og þar med Guds Lijkama / en þar hia er oñur Naufn/um hvoria Drottenn talar/Joh. 6. Sa sm etur mitt Holld og dreckur mitt Blood/hñ sk ecke Daudan smacka ad eilijfu. Nefñar verda þr einer hluttakande er sig hafa verduglega tilreidt/ hun skredur opt þ utan Sacramented/en þo a hun i Sacramentenu hellst ad skie Vilier þu hennar niootande verda/þa sia til ad þu framkomer skrijddur Brudkaups Klæde/ Matth. 22. añars verdur ecke af Trulofunenne vid þañ fegursta medal Mañanna Sona/ Ps. 45. Þad er ei noog ad hafa um stundarsaker uthreinsad Hiartad med Sooplimū Ydranarennar/helldur byriar strax ad safna i þad hinū bestu Dygdū/ so ef hiñ Ohreine Ande kañ aptur ad hverfa med sio ödrū sier verre/ad hñ finne þ þa ecke tomt/ & verde so þitt siddara argara hinu fyrra/Luc. 11. Veit eg ad þetta er eirn torvelldur Hlutur/þvi þ er su Barátta mille Holldsins og Andans er gyrnest hvort i moot ödru / Gal. 5. Enn hvad skulu Menn seigia ? Þar sm eingenn Barátta er/þar er eingenn Sigurvinning/þar fyrer sa sm ætlar sier ad uppbyria nijan Lifnad/hñ legge mest Kapp a ad brioia þær Gyrnder/sm hñ er mest tilhneigdur. Þier er ecke Okunugt ef þu leggur nockurn Hug a þitt Mál/af hvorin Nytsū þu mest verdur lock

adur

a:ur til ad giøra Illt/varaſt þa hina ſømu/þott ei ſieu þeir vonder ꝫ ſialfū ſier. Eingeñ Hertoge ſtrÿder leinge einſamañ/hvorſu vitur eđa volldugur ſem hañ er/ og ſo eru Leſterner/ef þeir eru einer um̄ ſig / þa er hægra ad fyrerkoma þeim. Um̄ fram alla Hlute/þa læt Gud ſia/ ad þier ſie Alvara ad lifa vel/og þa er hn̄s Adſtod vÿs/ſem þier drego ur þuſundſiñū meir eñ aller þÿner Atburder/þvi án myn megned þier eckert/ſagde Jeſus vid Læreſveinana/Joh.15. Sa ſm̄ ecke hatar Syndena/hn̄ geingur Overdugur til Guds Bords/eñ ſa ſm̄ hana hatar/hn̄ hefur alvarlegañ Aſetning til ad læta af heñe / þvi eingeñ vill Um̄geingne hafa med þm̄ ſem hn̄ ad Nalre hefur. Læt Gud ſiſia þta hia þier/nær hn̄ rañſakar Hiarta þitt/ꝫ ſvÿk ei ſialfañ þig/hn̄ gietur þu ecke ſviked. Eg veit þad er Torvelldt ad læta allt a mooſe Hollde og Bloode / eñ hafer þu nockurn Tÿma af Hiarta ydraſt og funded til GudsReide og Samvitſkuñar Verke: Hafe þÿnar Synder giørt þier nockurn Tÿma Helvÿte heitt/ þa rædgaſt um̄ vid ſialfañ þig/ nær þu freiſtadr verdur af einhvørre Syrnd/hvørt þu eiger ad viſia þ til ſkam̄ viñs Munadar/ad þola ſtrax a epter ſlÿka Kvøl. Munde David hafa viljad leika ſier ad ſømu Synd/epter þ hn̄ hafde ſo leinge kæraſt fyrer Gude ? Munde Petur ecke hellđur hafa i Daudañ geinged/ eñ ad afneita Chriſto/hellđur eñ ad lÿda ad nÿiū Afølur Samvitſku ſiñar/ þegar hn̄ gieck ut og griet beiſklega? Matth.26. Ætla þier og ecke þad/ad læta epter þier eirn Breſt/eñ þiona Gude i hinu/þvi ſa ſm̄ brÿtur eitt Bedorded/hn̄ er i øllū ſekur/ſeiger Poſtuleñ/Jac.2. Eingeñ af þÿnum Dygdū kañ ad ſtandaſt fyrer Guds Riettlætis Doome / hvi munu þær þa riettlæta Slæpena? Snÿd þvi allt Ogudlegt Athæfe burtu/ ſo miked ſm̄ þu fær orkad/ eñ þar ſm̄ þÿner Kraptar dvÿna/þa tekur Chriſti Forþienuſta vid. Meina og ecke þ ſie nog/ad þu nockra Stund ganger a Guds Veige/þvi þeim ſem er trur allt til Daudañs/mun eg giefa Coronu Lÿffins/ſeiger Drotteñ i Opiñberingar Bookeñe/2. C. Og eg vil eñ framar ſegia: Ad þ vill hellđur fordæma þig/ eñ riettlæta/ad þu hefur einhvørn Tÿma Gude þioonad/ef þu hverfur þar fra aptur/ þvi þad er Teikn til þeſſ ad Gud hefur lient þier ſo mikla

Kraptaſ,

Krapta/ad þu giefur geinged hinn riettа Veg ē til Lyffsins liggr/verdur so Skullden hia þier/enn ecke hia Gude. Umfram alla Hlute sem til ad þu Otteſt hann z elsker/þa munt þu øngvann Samkmaala giøra vid hans Ovine/sem eru Hollded/Heimurenn z Diøfullenn/helldur munu allar christelegar Dygder sialfkrafa spretta i Akre Hiarta þyns / eins og Korned vex þ ukann Mannsins Umak/ þa Sædenu er i Jordena kastad/ Og þad er sa einaste og beinaste Vegur til ad lifa Gudrækelega/og sa sem a hønum er/ fer alldrei villur Vegar. Nu hefe eg einfalldlega sagt hid hellsta er þeim byrr ad hugleida ē vilia verduglega til Guds Bords ganga/enn eg hefe sagt þ Børnum og samfroodum Mønnum/ hina sem vijser eru og kunna Guds Veg/þa næger ad minna a Christi Ord/er hann sagde: Luc. 12. Sa Þioon er veit sijns Herra Vilia og giører hann ecke/ hann mun mørgum Høggum slegenn verda. Enn þu sem Foornfærdur ert fyrer vorra Synda Skulld Herra Jesu Christe/Styrk þu oss bæde i þessu og øllu ødru Verke Saluhialpar vorrar. Bænheyr þad vor Frelsare/Hvørium med Fødur og H. Anda sie Magt og Vellde/ Lof/ Heidur og Pris umm Allder / Amen.

# A Føstudagenn Langa.

## Exordium.

Engre Skiepnu sinne hefur Guds Giæska meira veitt enn Syndugum Manne / og varla er þo nockur tregare til ad þeckia hans Giæsku. Þegar Adam hafde eckert a moote Gude giørt / og ecke af hønum þeiged nema Skøpunena / og so vallo yfer hinum ødrum Skiepnum a Jørdunne / þa er lyklegt ad eingenn Hlutur hafe hønum innilegre vered / enn ad lofa sinn Skapara / og gledia sig i Undran hans Dasemdarverka / Enn sijdann Gud hønum meira veitte i Fyrergiefningu Syndanna / og Fyrerheite þess Blessada Kvinnunnar Sædis / Gen. 3. Þa eru Adams Nidiar bitner fra þeim Hlutum sem heyra til Guds Dyrdar. Heilager Einglar sem framme fyrer hønum standa / hafa einasta hinn Dyrdlega Skapnad og Sæluvist med Gude af hans Hende þeyged. Guds Sonur hefur Abrahams Sæde enn ecke þa uppa sig teked / Heb. 2. Samt eru þeir Þioonustusamer Andar / Hebr. 1. Enn Madurenn hvøren Gud hefur Skapad / Skapadann Endurleyst / Endurleystann Endurgieted / Endurgietenn / med JEsu Holde og Bloode mettad og dryckiad / og uppfyllt med sijnum Astgiøfum / hønum finst lyted þar til / og er nærsta Toomlatur i sinne Guds Þioonustu. Einglar komu og þioonudu Christo i hans Manndoome / Matth. 4. Enn hans Faolk villde ecke þioona hønum / Eingell-

enn

eñ bodade hañs Getnad / þeir prijsudu hañs Fædingu / Luc. 1. og 2. Eingelleñ
kom af Himne og styrkte hañ i Kvølene/ Luc. 22. Eñ hañs Eigen giørdu hañs
Sælu hryggva allt i Daudañ. Einglarner boodudu hañs Uppriisu hiä Grøf-
eñe / Eñ hañs Foolk og Prestarner keyptu Ljwgvotta til ad mootseigia heñe /
Matth. 26. Øll Skepnañ mæner med wtríettu Høfde epter Guds Barna Aug-
lysingu / seiger Paulus/ Rom. 8. Og hun stynur til samans / og er til samans so
sem i Barnburde. Fyrer vora Skulld er Jørdeñ bølvud / Fyrer vora Skulld
mä hun Þyrna og Þistla bera / Gen. 3. Fyrer vora Skulld er hun Þrældoomen-
um undergefud / Eñ i øllu þessu Auglyser hun þo Dyrd syns Skapara / hvøren
Madureñ vanvirder med Oþacklæte og vondum Verkum. Ef ad þesser þegdu /
þa mundu Steinarner brædlega hroopa / sagde Frelsareñ vid Gydinga / þa Børn-
eñ swngu Hosiañä / Matth. 21. O HErra Gud / Høfdu Steinarner Orsøk til
ad hroopa þa Christur Jñreid til Jerusalem ? Hvad høfdu þeir ecke þegar hañ
var af Jerusalem so sem Bølvan wtrekeñ ? Ef Dauder Hluter mättu vakna vid/
þa Lyfsins HErra kom til siñar Arfleifdar / hvad mättu þeir ecke þegar Lyfed
dóo a Krossenum ? Skylldu Musterisins Vegger hafa giefed Hlood af sier / hef-
du Børneñ þagad ? Hvad var þa øll Verølldeñ ecke skylldug ad giøra / þar aller
løstudu / hæddu og brixludu/ og a Krossens Gälga negldu heñar Skapara? Þetta
hroopar øll Natturañ yfer Oþacklätu og Ogudlegu Mañkyne a Pijslar-Deige
allrar Veralldareñar Lausnara / þvi samþyñest hun synum Skapara i hañs Pynu/
so sem ecke hefde hun Rænu a ad giøra syna Embættis Skylldu / þar Mañeskiañ
var so Afsiña/ ad hun Aflyfade siñ Lyfgiafara. Þesse Natturuñar Umbrot
hefe eg æsett i Dag fyrer ydrum Kiærleika ad yfervega. Og viltum vier þar
fyrer i þetta Siñ Hugleida þau sierlegustu Furduverk sem ad skiedu i Pynu vors
Endurlausnara / med þeim Lærdoomum sem vier oss til Huggunar og Aminningar
taka meigum þar af. Styrk oss til þessa Verks O Gud i JEsu Nafne/ Amen.

## Utleggingeñ.

ÞAr urdu Myrkur yfer alla Jørdena/og Sooleñ miste syna Byrtu/
seiger i Textanum. Hvørt þesse Formyrkvan hafe einasta skied i
Gydinga Lande/edur yfer allañ Heimeñ/ vil eg i þetta siñ ecke fæ mier
til Orda. Vær viliñ alleinasta færa oss i Nyt þetta Dääsemdarverk/
til Gudrækelegrar Umþeinkingar/vitande ad þetta so vel sem aller Guds
Giørningar eru skieder oss til Lærdooms. Hvørsu mætte hid blessada
Heimsins Lios lysa Mønnunum/ þar Mañañna Endurlausnare var kval
eñ/ og þad skiæra Lioos sem upplyser alla Meñ sem koma i þeñañ Heim/
Joh. 1. took under ad ganga? Sool Riettlætesins/ Mal. 4. var siñe
Undergøngu nærre/ þar Daudans Skugga took til ad slæ yfer þau all
ra Helgustu Augu/ sem ad eru þusundsiñum skiærare eñ Sooleñ/ Syr. 23.
Þvi var þess øll Von/ ad hun Natturlega skamadest syn ad lysa. Þegar

Men̄ sia eirn vidurstyggelegan̄ Hlut sin̄ aller blygdast vid Augunū ad lijta/ þa snua Men̄ sier undan̄/edur jafnvel byrgia þ Augu sier. Sool ena kalla spaker Men̄ Auga Heimsins / hun hefur alldrei so blygdun-arlaust Verk yferskined sin̄ þta/ad Gudlauser Heidingiar og Hardsvijr ader Gydingar tooku Konung Dyrdarennar af Lyfe / þar sialft Lyfed var aflyfad/ þar Daudans Daude mætte Dauda deya / Ps. 13. þar Dagurenn vard ad Nottu Myrkranna Verka/þvi byrger Natturann þ Augu sier/ad hun ei skyllde horfa a/ ad Natturunnar Herra være þan̄ en̄ af Dögū rædenn. J mikelle Sorg z Harmkvælū plögudu Judar ad byrgia synar Asiaaner. David gieck med huldu Höfde yfer um̄ Lækenn Cidron 2. Sam. 15. So seiger Micheas 3. Cap. Siaaendurner munu til Skam̄ar verda/ og Spaasagnararner blygdast/ og þeir munu aller byrgia synar Asioonur/ þvi þar er ei Andsvar fra Drottne. Hier byrg er Himenenn sitt Andlit/og þoler þar ecke yfer/ad hn̄ sin̄ uppfiller bæde Himen z Jörd/ 1. Reg. 8. Han̄ i hvörs Auglite Himnanna Himnar ecke eru hreiner/Job. 15. ja/hvörs Hæsæte ad Himenenn er/Esa. 66. han̄ skule a sine Footskör einū Madke og ecke Manne lyfur verda/ Ps. 22. Formyrkvun Soolarennar orsakast þar af (epter þvi þ̄ hiner Vijsu seigia) ad Tungled geingur a mille Soolarennar og Jardarennar. Þo skiede þ ecke i þessare formyrkvan /þar Tungled var i sine Fyllingu / hvar-fyrer hun var a moote Natturunne/þvi giefur þetta mier Orsök til ad þeinkia þar um̄/ad vorar daudlegar Illgiörder settu sig a mille Christi Man̄doms i Pijnunne/og þss blyda Auglits Fodursins/hvert ad er Sool þrar Himnesku Jerusalem/ Apoc. 21. so ad Geyslar hns Fodurlegrar Elsku/nædu ecke ad skijna i giegnū þær/yfer þan̄ Elskulegasta Guds/ z su Velþocknan sin̄ hn̄ hefur i synū Eingietna Syne/ Matth. 3. um̄-hverfdest/ef so mætte ad Orde komast/i hin̄ stora Byrdar-þunga hns Reide / hvør ed kvalde Jesu blessadan̄ Lykama og Saal allt til Daud-ans. Sia hier christenn Madur þn̄ brennheita Kiærleika lifanda Guds/s hn̄ hefur elskad þig med þegar þu varst hns Ovinur/Rom. 5. Er ecke þta skied til þss ad þynar Synder ecke adskilie þin̄ Gud og þig? Es. 59. Og þegar ad Skugge Myrkranna Verka og hiner fulu Dampar þinna

Illgiörda

Illgiørda z Bodorda Broka stijga upp i Himenen̄ þ hin̄ riettlata Doo-
mara/ ad Christur med sine Forþienustu afmae þær þa so s̄ an̄ad Sky/
Es. 44. og kaste þm̄ i Hafsins Diup/ so þra ecke ad eilijfu minnst verde/
Mich. 7. Vm̄ þessa Formyrkvan spaer Amos i 8. C. a þen̄an̄ Hatt:
A þm̄ Tijma vil eg lata Soolena underganga um̄ Middege / og allt
Landed myrkt verda a Deigenu. Min̄ Herra JEsu/ þvi munde ecke þ
blessada Lioos Veralldaren̄ar innebyrgia sitt Lioosma/ þar Lioome Fødur
sins Dijrdar/ og Jmynd hs Guddomlegrar Personu tæmde sialfan̄ sig/
so sem Paulus ad Orde kiemst/ Phil. 2. og Guddoomuren̄ (so ad seig-
ta) hulde sitt Auglit fyrer Man̄doomenum þegar Christur leid. Þvi
skillde ecke Landed myrkt verda? þeg" Lijfsins Trie/ hvørs Blød ad þie-
na til Heidingiana Lækning"/ Apoc. 22. var af heiden̄a Man̄a Miysk-
unarlausum̄ Høndum̄ upprætt af Lande lifande Man̄a. Epter þ mikla
Myrkur sem̄ skiede fordum̄ i Ægyptalande/ Exod. 10. þa fylgde Israels
Sona Frelsun og Vtleidsla af þvi Prældoms Husenu/ en̄ þessum̄ Myrk
rum hefur fylgt eitt eilijft Frelse fra Syndaren̄ar Prældoome. Ept-
er Myrkuren̄ i Ægyptalande kom Slatrun Paaskalambsins/ Exod. 12.
en̄ i þessu Myrkrum̄ verdur þ sama Paaskalamb slatrad a Krossens Alt-
are/ sem̄ ber allrar Veralldaren̄ar Synder/ Joh. 1. Gydingar høfdu bed-
ed Christum um̄ Teikn af Himne/ Luc. 11. Sia hier eitt Teikn sem
skied er i Augu allrar Veralldaren̄ar. Hvilijk: mun hn̄ vera i Dijrden̄e/
sem so er krøptugur i Pijnun̄e? Hvør mun han̄ vera lifande/ sem er so
Volldugur deyande? Hvad øblugur mun hn̄ Drottnande/ er so drottn-
ar yfer hinum miklu Høfudskiepnum i Mynd eins Pioons lijdande: J
Exod. B. 10. C. skipade Drotten̄ Gud Moysi ad uppriett a sijna Hønd
til Himens/ ad þar yrde Myrkur yfer allt Landed/ og þar vord Myrkur
z Poka i Ægyptalande um̄ þria Daga/ so eirn Madr: sa ecke sin̄ Brod-
ur/ en̄ øllum̄ Israels Sonum̄ var lioost i þra Hijbijlum̄: En̄ siaed/ hier er
meir en̄ Moyses/ hier er JEsus Sonur Guds lifanda/ han̄ utbreider
bædar sijnar Hendur a moote Himnum a Krossens Trie/ hier verdur
Myrkur yfer allt Landed um̄ þriar Stunder: en̄ i þessu Myrkre hefur
øllum̄ andlegum̄ Israels Sonum̄ upprun̄ed eitt skiært og fagurlegt Lioos/ so

eirn Broder þarf ei ødrū ad kienna/ helldur verda þr aller af Gude lærder/ Jer. 31. og aller þr ed a JEsū Christū trua/ hvør ed gaf sitt Lijf ut fyrer syna Brædur/ þeckia hvør an̄an fyrer Systur og Brædur/ og eru eitt Jn̄byrdis so sm̄ hn̄ og Faderen̄ eru Eitt/ Joh. 17. O Herra Gud/ hvad skal eg hier til seigia? Eg vil bruka þ sama Orda Tiltæke sm̄ Jeremias t 2. Cap. brukar yfer Syndū Jsraels Foolks/ seigiande: Himenen̄ skyllde grua þ yfer/ hrædast og skielfast mikelega. Hier syneft mier ad Himenen̄ og Himnan̄a Krapt ͬ giøre af Alvøru þssa Befalning Drottens. En̄ þu christen̄ Madur sem ert hin veikasta Bola af Floode þssarar Veralldar/ kiemur þier ecke til Hugar ad byrgia þitt Andlit sm̄ er fullt af Ovyrdingu/ þegar þu heyrer ad Soolen̄ sm̄ daglega upprenur yfer þier Ranglatū/ Matth. 5. hun sortn ͬ t þyns Skapara herfelegustu Nidurlægingu? Veitst þu ecke hvad St. Paull seiger; Eph. 5. Þier vorud fordū Myrkur/ en̄ nu erud þier Lios i Drottne/ ganged so s. Liossins Børn. J þssū miklu myrkrū s þu heyrer i Dag vera talad um̄/ hefur Leoned af Kyne Juda/ Apoc. 5. Myrkran̄a Høfdingia sigrad z Herleidinguna ad Herfange teked/ Eph. 4. og þig s eilyflega ætter ad kvelíast i ytstu Myrkrū med Ope og Tan̄agnystran/ þrifed ut af þre Grifiun̄e/ hvar eckert Vatn var in̄e/ Zach. 9. Paulus skrifade þsse Ord til þrra i Epheso/ sem af Heidingiū høfdu Christner giørst. Þu ert og christen̄ af Heidingiū komen̄/ hvørier af Gude eckert vissu. Seig mier/ Hefur þu aflagt Verken̄ Myrkran̄a/ sydan̄ þu heyrder Jesū a Krosse/ en̄ fyrer þig uppheingdan̄? Þegar þu les ad þu skuler ottast og Elska Gud/ en̄ fremur þo ann̄ Vm̄þeinkingar þ hm̄ vell lykar/ sem er syndugt Athæfe/ eru ecke þad Myrkran̄a Verk? Þegar þu hugsar Jllt i þynu Hiarta og fremur allar Odæder under Skyne Meynleysesins og Gudhrædslun̄ ͬ/ en̄ veitst þo ad hn̄ sier hvad i Myrkrunū er huled/ Syr. 23. Heiter þ ecke ad vilia blinda hn̄/ sem Augad hefur skapad? Þa þu sier eirn Vesæling Naud lyda/ sm̄ eins miked færde in̄ i Heimen̄ z þu/ z allt eins miked mun burtu bera/ en̄ þu byrger þyn Augu fyrer hm̄/ og styngur þau helldur ut/ en̄ ad þau skule sia Aumur a hm̄/ er þa ecke æred myrkt þ Augū þier? Þegar einū geingur i Vil/ og hn̄s Lucka er þier

þo eingeñ Afdrǽttur/ eñ þitt Hiarta gremst yfer þvi/ z þu ert Nǽung
eygdur af hn̄s Velgeingne/ munt þu þa þ Myrkre þiñ ˇ Ofundar/ giet
ta rakad þñ Veg/ s Guds Born seta eiga iñ til Lijfsins? Þeg.ˇ þu elsk-
ar þijn eigeñ Lijke/ og Bialkeñ i þijnu Auga skygger a alla þijna Klǽ-
ke/ eñ Flijseñ i Nǽungañs Auga/ er þier ævallt þ Sioonū/ Matth. 7.
Er þ ecke Sparsnǽkke eigeñ Þooktans? Þegar einhvør af Mañlegū
Veikleika giører edur talar þier nockud a moote/ eñ þu sierst ecke fyrer/
jafnvel ad voga þiñe eigeñ Velferd hm̄ til Olucku/ mun þa ecke Myrk
ur Foolskuñar apturbyrgia þijn Augu/ so þau gǽe ecke ad/ ad skam̄a
Stund verde Hønd Høgge feigeñ? Þegar Satan hefur þig uppa eitt
ofurhǽtt Fiall/ og sijner þier øll Rijke Veralldareñar og þrra Dijrd/
Matth. 4. eñ þu veitst upp yfer þier stendur Drottiñ Gud þiñ/ sm̄ þu
alleina ǽtt ad tilbidia/ munu þa ecke reña a þig tvǽr Grijmur/ hvøriū
helldur þu eiger ad þiena Gude edur Mamon? Ecke munu þr aller vera/
sm̄ med goodre Samvitsku hroosa kuñe/ ad ecke hafe vorded myrkt fyrer
Augū sier i þvilijku Tilfelle. Þegar dǽma a mille Brodur og Brodur/
a millū Bloods og Bloods / eñ hiñ Vollduge ber Fie i Doomeñ / eda
Otteñ kvelur/ eda Vinǽttañ kytlar þa Hønd/ sm̄ a Sverdenū helldur/
Mun þa ei Andskoteñ setia Brillur uppa Riettarans Naser/ so hñ ecke
sjáe rañad þañ Høggstad sm̄ hñ ǽtte? Villdū vier nu reña vorū Aug
um fra Gialijfe Veralldar þiarar uñ stundarsaker/ og bera þsse Verk
samañ vid Lioos Guds heiløgu Orda/ þa þyker mier ecke Olijklegt ad
Andlit vorrar Samvitsku munde rodna fyrer Gude. Med hvøriūm
Augū skal eg lijta þiñ Brodur Joab? sagde Abner fordū Daga/ þegar
Hasael rañ epter hm̄ i Bardaganū/ ef ad eg slǽ þig i Hel? 2. Sam. 2.
Eñ hvørtu viliū vier Gude eilijfū Konunge og alleina rijkū svara/ þar
vier høfū hañs Son Krossfestañ? og þ vor Myrkra Verk / er Magt
Myrkrañā yfer hñ komeñ. Munū vier þora helldur eñ Hollheimtumad
ureñ/ Luc. 18. ad lypta Augū vorū upp til Himeñs? Munū vier diarf-
are verda eñ vor Fader Adam? Sa er falde sig þ Gude / og þorde ecke
ad lijta hñs Auglit/ Gen. 3. Þar fyrer/ christeñ Madur/ kañast þar vid/
ad þier ber Blygdun þijns Andlitis / eñ honū ber Dijrdeñ og Heidur.

 eñ/

eñ/Dan. 9. J Afftañ Mæla seiger Pijslar-Sagañ/Ad FORtialldid i Musterenu Hafe i Sundur-rifnad FRa OFañverdu/ Allt Nidur i GJegn. Von var ad þ Mustered sm var med Hondũ giort/munde ei standast þa Ogn/ad hid dyrdlega Mustere hñs Lijkama var nidurbroted Joh. 2. Þetta Fortiallð adskilde þ allra Heilagasta fra sialfu Musterenu/ hvar iñe var a Døgũ Salomonis/Sattmæls-Ørkeñ/ Nædar-Stollen og Vøndur Aaronis/sm voru Skugge epterkomande Giæda/ Heb. 9. Því sundurrifnar Fortialldid/ad Skuggeñ yrde burtteken/þar vier høfum sialfa Hlutena. Ørk Sattmalans nille Guds og Mañа var uppfest a Krossens Trie. JEsus sm er eirn Nædar-Stooll i sijnu Bloode/Rom. 3. var hier øllũ giefeñ. Kvisturen af Root Jesse var bloomgadur/Es. 11. Lijfsins Braud var af Himnũ ofañkomed og øllũ fraũboded/so ad hvør sm æte þar af/skyllde ei Daudañ smacka ad eilijfu/Joh. 6. Jñ fyrer Fortialldid i þ allra Helgasta/mætte ei ganga nema hiñ ædste Kieñemañ eitt Siñ a Are/eñ þ rifnar hier i sundur/til ad audsijna þar med/ad hiñ ædste Biskup vorra Sælna/er þ sitt eiged Blood/einusiñe iñgeingeñ i þ allra Helgasta/ad utvegadre eilijfre Endurlausn/Ebr. 9. Þar þ er oss nu þ allra Helgasta opnad/sm er i Himnũ/so vier høfũ fryañ Tilgang til þss Himneska Nædar-Stools/af hvørs Fyllingu vier høfũ aller medteked Næd fyrer Næd/ Joh. 1. Ei mætte Almuge Mañа iñganga þ Fortialldid i Musterenu/ Levt. 16. eñ hier er þ sundurrifed þ hñs Dauda/ sem hefur fullnægt Løgmælenu/og lided fyrer þ/sem vier med vorũ Syndũ høfdũ forskulldad/so ad hvør eirn Riett-truadur er Guds Kieñemadur i sijnu Hiarta/ Apoc. 1. sm er hñs Mustere. Hañ hefur Fortialldid i sundurrifed/og þar med i burtu teked þñ Veggeñ/s mille var/z giørt eitt af Bædũ/Eph. 2. so þar yrde eitt Sauda-Hus z eirn Hyrder/Joh. 10. z ei være fram' Kall edur Kona/Þræll nie Freisinge/Gydingur nie Grikkur/helldr aller eitt i Christo Jesu/Gal. 3. Kieñemañа høfdingeñ hafde ædr rifed sijn Klæde a mote Guds Bode/er hñ kieñde Frelsarañũ Gudløstun: Eñ Gud Allsherr' uppa þ hñ audsijnde ad hñ z hñs Selskapur væru sek' i þre Ohæfu/hũ læt: Fortialldid sundurrifna. Þesse Atburdr ætte nu ad kieña oss

Mijner

Myner elskañleger/ad sundurrÿfa ecke vor Klæde/ helldur Hiørtu vor med heitre Ydran/ Joel.2. Giæt ad syndug Mañeskia/ hvad Ovidur-kvæmelegt þer/ad þiñ Lausnare hæng' a hinū smænarlegasta Krossens Galga. Hñs Hørund er sundursliteð af hudstrokunū/sundurmared af Høggunū/sundurrifed af þyrne Broddū/sundurstunged af Roglunū/ sundurflakande af Sarū og Beniū/og Lokfins sundurkramed/sundur kreist z sundurmared af Guds elldlegū ReideSvipū z Obærelegū Þun ga þiña Synda/sm hñ hefur bored/z Hegningarefiar s a hm̄ læ/uppa þad þu hefder Frideñ/Es.53. þegar þu villt þta fyrer þier virda/þa mætte þier under eins til Hugar koma/ad draga þa Skyluna fra Augū Salar þiñar/sm þar leinge hefur fyrerhæanged/z glepur so þ þÿnum ikra Mañe/ad þu þecker hvørke Gud nie sialfañ þig. Villt þu vera Guds andlegz Kieñemadz i þÿnu Hiarta/sm ad er hñs Mustere/þa byr tar þier ad alhuga i hvada Herberge hñ vill bua/s er i einu sundurkno sudu Hiarta/Es.57. Forner Gamla Testamentesins eru ad søñu fyrer JEsu dyrmætu Forn a Krossens Altare afmaadar og ad øngvu giørd ar/ eñ þar þ skallt þu ecke meina/ ad þu eiger øngva Skulld Gude ad giallda. Eñ hvilÿkt er þad Offred sm hm̄ þocknast? Þar seiger David fra i Ps.40. Blod Bxaña og Hafraña þocknast þier ecke: eñ Harm-þrungeñ og sundurknosadañ Anda munt þu ecke fyrerlÿta / Ps. 51. J þridia Maaka seigia Gudspiallameñerner/Ad Jørdeñ Hafe Skolf-ed. Hvad hrædelegur hefur Jardskialfte þesse vered/Børn mÿn: þar ecke einasta Fialled Golgata/a hvørtu ad stood Drottens Kross/helldur øll Verølldeñ hefur leiked a Reideskialfe. Plinius eirn heideñ Madur seiger fra/ ad a Valldstioornar Døgū Tiberÿ Keysara um̄ þta Skeid hafe 14. Stader i Gricklande og i þre miñe Asia i Gruñ nidur falled/ hvørra Nøfn Cornelius Tacitus i añare Book siña Añaala øll upp-telur. Hefur nu þsse skielfelege Jardskialfte vered eitt Teikn Guds Al mæktugs Heiptar Reide/þar hñs Eingieteñ Sonur/i hvøriū hm̄ alleina vel þocknast/Matth.3. er fyrer añarlegar Synder af hinū Syndugustu so hardlega utleikeñ/ þ giefur Messias til Vitundar i Ps.18. med þss are Harma-Kløgun: Daudans Angist hefur um̄kringt mig/z Belials

Becker

Becker hafa Ognad mier/ Eg kallade til DRottens/ og Jordeñ tit-
rade og skalf/ og Grundvollur Fiallaña hrærdest og umturnadest/ þvi
hañ vard reidur. O miñ HErra Gud/ Hvad stoor er þyn Þoleñmæde
yfer Syndeñe og Ogudlegu Mañaña Athæfe? Hier gieck so mikel Ogn-
an a/ ad Jordeñ gat ecke stadest under þeim Þunga/ þa heñar Skap-
are leid. Nátturañ took ad glidna i sundur/ þvi þær Hendurnar voru
a Krosseñ negldar/ sem vega heñar Þunga med einu Fyngre og ihelkta
Siafar Hafed i syñu Hnefa/ Esa. 45. Hañ ber alla Hlute med Orde
syns Kraptar/ Ebr. 1. Þvi skylldu þa ecke aller Hluter sundurbresta/ þa
hañ sem hefur Ord eilyfs Lyfs/ Joh. 6. mætte deyia? Þegar Løgmæled
var Fordum utgiefed/ þa skalf Jørdeñ/ ⁊ Fiølleñ bifudust ⁊ titrudu eins
⁊ eitt Strá/ Exod. 19. Eñ siá/ hier liggr øll Løgmælsins Bølvan a
þeim/ sem Løgmæled hafde utgiefed/ eñ hafde þo i allañ Máta upp-
fyllt Løgmæled. Þvi skielfur Jørdeñ af Ognañ/ ad su Handskrifteñ
sem moote oss var/ er boreñ uppa Tried/ og a Krosseñ negld/ Col. 2. eñ
Evangelium/ sem er Kraptur Guds til Sæluhiálpar/ øllum þeim sem trua/
Rom. 1. er hier underskrifad med hañs Bloode/ sem vordeñ er Bølvan ꝥ
oss/ Gal. 3. Core/ Datan og Abiram møgludu moote Gude/ þar fyrer
urdu þeir lifande i Jørdena nidur ad fara/ Num. 16. Eñ meire Moot-
mæle hefur þu hier þolad miñ HErra JEsu / þvi er ei ad furda/ þo
Jørdeñ opne sig/ og biode sig til ad svelgia þa Ogudlegu Skálka/ sem ꝥ
saklausa Guds Lamb høfdu a Krosseñ neglt? Eñ hier siáum vier ad þitt
Blood er Forlykun ꝥ allar Veralldareñar Synder / ad þynum Kvølurum
hefur þyrmt vered fyrer þyna Bæn i þiñe bitru Pynu / Luc. 23. eñ
Nátturañ má samþyknast syñu Gude. Þeir høfdu hroopad til forna/
Krossfestu hañ/ Krossfestu hañ/ eñ hier opnar Jørdeñ siñ Muñ til ad kuñ
giøra þitt Sakleyse ⁊ áklaga Gydinga. Þegar Adam neytte þess for-
bodna Avaxtar Jardareñar/ þa var Jørduñe bølvad/ Gen. 3. Eñ su
Bølvan linadest ꝥ þess fyrerheitna Sædis Skulld. Nu má syñast ad
Jørdeñ/ þar hiñ añar Adam/ sem er Drotteñ af Himne/ var pyndur a
heñe/ ad hun kvyjde vid ad heñe verde ad nyiu bølvad med eilyfre Bølvan.
O Herra Himneske Fader/ Fader allrar Nádar og Myskunseme/ vier

meigum

meigũ jæta ꝥ um̃ oſſ/ ſm̃ Jeremias ſeiger i 5. Cap. Ad vier høfũ hardar Aſioonur/ ſo ſm̃ eirn Steirn/ og viliũ ecke um̃venda oſſ. Vor Hiørtu eru hardare eñ Klettur/ þar Biørgeñ i ſundur klofna og Jørdeñ ſkielfur/ eñ oſſ kiemur ei til Hugar ad læra oſſ Ogna þær Synder/ ſm̃ hafa þiñ Son Kroſſfeſtañ. GRafer FRamlideña Lukuſt upp/ Eñ vier erũ ſo dauder i Syndunũ / og ſo diupt nidurgrafner i Rænglæted / ad vier fæum ei riſed upp ur hiñe fulu Grøf Holds og Bloods a moote vorum Herra. Af þyns Eingietens Sonar Sijdu/ ſm̃ er Hella vors Hiælpræ̈dis/ ut rẽñur Blood og Vatn/ Joh. 19. Eñ af vorum Augum gietur ei ſtocked eitt Ydranar Tár. JORden Skalf. Og BJørgeñ i ſundur klofnudu a Þijnu-Deige vors HErra. O/ hvad meiga vor Hiørtu vera Steinũ hardare/ þar Minning Droſteñs Dauda / er vier høllduñ a þeſſum Deige / kañ þau ecke ad mykia til Ydranar og Apturhvarfs fra Ogudlegu Athæfe. O hvad ſtoor Munur er þo a milliñ Guds og Mañs/ ad hañs Hiarta breſtur yfer einũ ydrande Syndara/ ſo hañ hlijtur hm̃ myſkunſamur ad vera/ Jer. 31. eñ Syndarañs Hiarta er ſo Obifañlegt/ ad JEſu dijrmæta Blood / ꝥ hvøriu øll Verølldeñ liet a Reide ſkialfe/ ꝥ fær ecke orkad þvi ad Madureñ græte ſijna Synd ꝥ Gude. O þu almættuge Gud/ ſẽ alla Hlute kañt framar ad giøra/ eñ vier kuñum ad hugsa edr mæla/ Eph. 3. Vñ ſkier þu vor Eyru og Hiørtu med Sverde þiña H. Orda/ ſo ad þau meige fiña til Synda ſiña og Chriſti bitru Kvalar: Lát oſſ medañ Nádartijmeñ eñ nu yferſtendur þeinkia þar til/ ad hañ mun apturkoma i Skyum Himens med Magt og miklu Vellde. Elldureñ mun breña ꝥ hañs Auglite/ i hvøriũ Himnarner munu forganga/ med Stoorbreſtũ/ og Høfudſkiepnurnar af Hita brædna/ ædur eñ allt þetta ſkier/ 2. Pet. 3. O Herra Gud/ Gief oſſ þa ad vier upphefiũ vor Høfud/ ſo ad vier þeckiũ vorn Vitiunar Tijma/ ſo vier læriũ ad fela oſſ i Biargſkorunũ / ſem eru bleſſadar Under þijns Eingietens Sonar/ og þar i dyliaſt medañ Reideñ fram hia geingur/ Eſ. 26. ſvo ad vier a þeirre vondu Tijd mættũ fraſkilder þeim Ogudlegu/ er JEſũ ad nyiu Kroſſfeſta og Footkroda hañs Blood/ Hebr. 10. Hvovorn Skruda i Lambſins Bloode/ Apoc. 7. og med þvi dijrdlega Skar-

te ifiganga i hans Brudkaup og þa himnesku Jerusalem / til ad lofa þig Eilijflega / þu Nalæita Guddoomsins Þrenning. Þad veite oss Gud Fader / Sonur og H. Ande fyrer Christi blessada Forþienustu / AMEN.

# A Paaska-Dagenn.

Gudspialled / Marc. 16. Cap.

OG þa ed Þvott-Dagurenn var umlidenn / keyptu þær Maria Magdalena / og Maria Jacobi og Salome / dijrleg Smyrsl / ad þær kiæme og smyrde JEsum. Og miog snemma Morgunsenn Þvott-Dagana / Komu þær til Grafarennar um Soolar Upprunna. Og þær søgdu sijn a mille: Hvør mun vellta fyrer oss Steinenum af Grafarmunnanum? Og sem þær litu þangad / saau þær ad Steinenn var afvelltur. Enn hann var ad sønn næsta mykell. Og þær geingu inn i Grøfena / og saau eitt Ungmenne sitia til hægre Handar / skrijddann sijdu Klæde hvijtu / og þær urdu Ottaslegnar. Enn hann sagde til þeirra: Eige skulud þier hrædast. Þier leited ad hinum Krossfesta JEsu af Nazareth / hann er Upprisenn / og er ecke hier. Sioed þann Stad hvar þeir løgdu hann. Nu farid þier burt og segied hans Lærisveinum og Petre / þad hann mune ganga fyrer ydur i Galilæam. Þar munud þier siaa hann / so sem hann sagde ydur.

## Exordium.

A Steinenn sem Uppbyggiarar hafa burtu kastad / hann er vorden ad Høfde Hyrningar / af DRottne er þesse / og er undarlegur fyrer Augn-um. / A þessum Deige hefur DRottenn þad giørt / Føgnum og verum glader a hønum / segier David Konungur / Psalm: 118. Ad þetta Kvæde sie ordt um Mannkynsins Frelsara / vottar sialfur hann / Matth. 21. Er hann þydder þennan Spaadoom uppa sig / hvør og so i hans Dauda og Upprisu ad fullu Rætt framkomenn er. Hyrnenn þeir hafe hønum burtkastad / þad høfdum vier heyrt a umlidnum Føstu Tyma. Enn hefde DRottenn ad eins vort auma Holld og Blood uppa sig teked / og daaed i þvi sama fyrer allar Veralldarennar Synder / þa hefde hann ad sønnu ad fullu loked þa Skullo er vier mættum Gude ad gialda / Þar fyrer sagde hann og under sitt Andlaat hangande a Krossenum /

eins z hier/helldur Auglite til Auglitis/1. Cor. 13. og er þo hin minsta Þecking j̄m eiñ Einfalldur Guds Dyrkare hefur á Christo hier i Lyfe/ miklu Vijsare eñ allt Mañvit Heims Spekingaña/ þvi Paulus seig-er/1. Cor. 1. Ad Gud hafe giört Speke Veralldar þessarar ad Heimsku/ z ad Heimska Guds sie Maññ hyggnare/ z Veikleike Guds Mañ öflugre. Þegar Magt heidenna Maña gieck j̄m hædst/og Vijsdomur Gyd enga stood i Blooma sijnum ad þra Nyggiu/þa voru hiner so Vollduger og þeir so vijser ad þr heingdu Koning Dijrdareñar uppa Galgañ/ hverierlveggia sier til Skam̄ar og sijns Hofdingia/ Fiandans Rijke til Nidurdreps/ so hañ hefur alldrei vidrett sijdañ. Þañeg er Magt Myrkraña og Skynseme Holldsins/ þau eru Volæde hia Guds Barna Veikleika/ og Heimska hia þra Einfelldne i Guds Auguñ j̄m eiñ er vijs og alleina volldugur/ Rom. 16. Og þott nockur være Einvallds Drotk eñ yfer ölluñ Heime þessuñ og visse alla Nattluru Hlutaña/ hvad munde þad vera hia þeirre Dijrd/ þre Speke og þeirre Sælu j̄m hiñ minste i Himnarijke er prijddur med/ þvi ef hañ er meire eñ Johañes Baptista hvers Lijke ei var af Konu fæddur/ Matth. 11. þa munu hiner miñ skamt til þess jafnvel i Nadeige Magtar siñar. Og hefe eg nu so talad fyrer ydur Br. M. um hina sierlegustu Averxte DROttens Uppstigningar/ hverrar hiñ fyrste heyrer honuñ sialfum til/ j̄m er ad hañ er inngeingeñ i sijna Dijrd/og eigu vier ad glediast þar af ad hñ er fareñ i burt hiedañ ef vier elskum hñ so sem hañ sagde fordum vid Lærisveinana/sierdeilis þar vier erum ecke Hlutlauser þessarar Dijrdar/ hñ so j̄m Frumgieteñ z Eingieteñ Sonur hins Hæsta hefur teked hiñ mesta Arf/ ma oss ei nægia þ Attleidinguñ/ ad vier eruñ Samarfar Christi og Erfingiar eilijfs Lijfs/Rom. 8. Ma þ ei duga oss Landræadamsñuñ/ad vier höfu Arfsvon i Omælanlegrar Dijrdar eilijfre Þyngd? 2. Cor. 4. Gud hefur giefed sijnum Syne Endemörk Veralldareñar til Arfleifdar / Ps. 2. Ecke so Fioll og Dale/Jord og Skooga/ Votn og Sioo og allt hvad þar iñe bygger/ so sem hañs elskulega Brudur sem hañ hefur utvaled af ölluñ Þiooduñ og Tungumaluñ adur eñ Grundvollur Veralldareñar var lagdur/ Eph. 1. þess höfum vier noted Auminngiarner sem liggiu

undet

under hinu ysta Heims Skaute þessu/ Vier erum hn̄s Arfur/ og hof-um vier sialfum oss alldrei betur vared. Hiner adrer Avexterner heyra oss Moŧunū til/ hn̄ hefur rijkuglega uthellt yfer oss Heilögum Anda/ so vier riettlætter fyrer hn̄s Naad yrdum Erfingiar eilijfs Lijfs/ Tit. 3. Hañ situr til Guds hægre Handar / og bidur fyrer oss / Rom. 8. So ad allar vorar Bæner eru Jaa og Amen. Hañ hefur opnad oss Himeneñ z tilbued oss þa Sælu-Vist er eg fyrer skömu umtalade. Nu þar Gud Fader i sijnum Syne/ Guds Sonur af Födurnum sendur/ og heilagur Ande sem af bædum þm̄ framgeingur/ ꝥad er öll heilög Guddoomsins Þreñing heft audsijnt oss þvilijkañ Kiærleika sm̄ adur er sagt i Drott-ens Uppstigningu / þa stijgū nu upp aptur a moote hönū i vorū Hug-skotū/ hañ hefur vort Hölld upphafed/ Ellegar hn̄ ecke Forgefens hafa sendt ofañ siñ Anda til ver aptur/ ef vier erū upprisner med Christo/ þa leitū þss sm̄ þar uppe er/ hvar Christur situr til hægre Handar Föd-sins/ Col. 3. Þar sem ydar Fiesiodur er/ þar er ydar Hiarta sagde End-urlausnareñ/ Matth. 6. Ef vier hofum medteked heilagañ Anda sem hn̄ hefur rijkuglega uthellt yfer oss i Endurgiefningar Vatns Saunū/ hvar skyllde þa vor Fiesioodur vera nema i hönum/ i hveriū ad byggia aller Fiesiooder Vitskunar? Col. 2. Postular Drottens horfdu upp i Himeneñ epter hönum / Act. 1. Lyptum og Augum vorum upp fra þessum Jardneskū Hiegooma/ og skoynium þad sm̄ þar uppe er/ Lyptum þm̄ til Hædañ hvadañ oss kiemur Hialpeñ/ Forsmaū Heim þeña med öllu þvi sem i hönū er/ þvi hañ mun fyrerfarast/ Gaungū þvi ut af Heimenū ad ecke forkijnumst vier med hm̄. DRottenn hafde Læresvein-ana ut til Bethania þegar hn̄ stie til Himens/ Luc. 24. Hvert hañ er fareñ þad vited þier og Vegeñ þecked þier/ Joh. 14. Bethania merker Fatæks Mañs Hus/ Ef þier vilied epter hönum uppstijga/ þa giörest Andlega Volader/ þviad sliijkra er Himnarijke/ Matth. 5. Falle ydur Rijkdoomur til/ þa fested ei Hiarta ydar vid hañ / Giöred Fatækum gott so þier sieud i Gude rijker/ og þr medtake ydur i eylijfar Tialldbud er/ Luc. 16. Elias foor nakeñ til Himna/ 2. Reg. 2. So meiged þier og flyta fra Hiarta ydar allt Veralldlegt Yferlæte/ ef þier vilied hönum

fylgia. Drottenn var nakenn Krossfestur/ Nakenn var hann i Lijklæþunne vafenn/ hana skilde hann epter i Grøfenne. Nakenn hefur hann upprised/ Nakenn uppstiged/ jafnvel þott hn hafe klæddur syynst fyrer Lærisveinunum/ Þu att ad Krossfesta hinn gamla Mannenn/ þu att ad greptrast med Christo/ og upprijsa med hm/ Rom. 6. Ædur enn þu fær uppstijged. Afklæd þig og so med hønum/ Lat ecke eina Flijk Veralldligra Muna þyngia Hiarta þitt so þu meiger fliuga upp i Hæderinnar eins ȝ annar Ern epter þijnum Frelsara/ Bruka so Heimenn/ ad þu ecke vanbruker hn. Slijt fra þier alla Elsku til Verolldarennar/ Lat ecke hennar Þunga Voru draga þig nidur þegar þu att ad stijga til Himens / hvar vor Borgar-Riettur er/ hvadann vier og væntum Drottens JEsu Christi/ Phil. 3. Honum med Fødurnum og heilogum Anda sie Lof/ Prijs og Heidur umm Allder Allda/ AMEN.

# Siötta Sunnudag epter Paaska.

## Gudspialled / Joh. 15. og 16. Cap.

JEsus sagde til sinna Lærisveina. Enn þa ed sa Huggarenn kiemur / hvern eg mun senda ydur af mijnum Fedur/ sem ad er Sannleiksins Ande / hver af Fødurnum framgeingur / Hann mun bera Vitne af mier / Og þier munud mier Vitne bera / Þvi ad þier hafed i fra Upphafe hia mier vered. Enn þetta tala eg þvi til ydar/ so ad þier hneixlest ecke. Þvi ad þeir munu forbooda ydur/ og sa Tijme kiemur/ ad hver hann Lijflætur ydur / Sa meinar sig ad giora Gude þægt Verk. Og þetta giora þeir ydur/ af þvi þeir þeckia hvorke Fødurenn nie mig. Enn þetta tala eg þvi til ydar/ ad nær su Stund kiemur/ ad þier minnest þeß/ ad eg sagde ydur þad. Enn þetta sagda eg ydur eige i Upphafe/ þvi eg var hia ydur.

## Exordium.

Enginn kann Tveimur Herrum ad þiona / Þvi annathvert hatar hann þann Eina / og Elskar hinn Annann / edur ad hann adhyllest þann Eina / og Forsmaaer hinn Annann / Þier gieted ecke under eins Gude þionad og Mammona seiger Endurlausnarenn / Matth. 6. Enn þad sem hann hier seiger umm Mammon / hver ad er Gud þessa Heims og hans Barna / þad vill hann sagt hafa umm sialfann Heimenn. Omøgulegt er under eins Gude ad þiona og so Heime þessum / þad

eru

eru Tveir so Olijker Hwsbændur / ad hvør þeirra tekur annars Peninga i burtu fra sier / og þad þess vegna ad þeir so Olijker eru / Þar fyrer aavarpar St. Jacob Postule Veralldarennar Vinsbugla þanneg / 4. Cap. Þier Hoorkarlar og Hoorkonur / Vited þier ecke ad Heimsins Vinaatta er Guds Ovinaatta / Fyrer þvi sa sem vill vera Vinur Heimsins / Hann giørest Guds Ovinur. Og fyrer þvi ad þessu er nu so vared / þa hliota Guds Børn adskillanleg Mootlæte og Hørmungar ad lyda / um hvert Efne eg hefe nockud fyrer skømmu talad / er eg Oska ad goodan Stad funded hafe i ydar Hiørtum. Enn Sokum þess ad margur fær ed vill Gud-þocknast / hann þoler liwflega þad sem Gud leggur sialfur aa / so sem eru Siwkdoomar / Fatækt / Astvina Misser og annad þvilijkt / Enn þad sem af Mannanna Hende kiemur / þad er oss bægara ad þola / og optlega upptendrast vort Hiarta af Reide og Hatre til þeirra / af hverium vier meigum nockurn Ofsoknud lyda / sierdeilis nær þad fram vid oss kiemur fyrer Sakleyse / edur og i Staden þess er vier gott hugdumst giøra / slijkt er ad sønnu Mannlegt / og eingenn lærer þad ødrum / Manna a medal / þviad flester eru so lynder. Enn ef vier adgiætum ad þad kiemur eckert fram vid Guds Børn sem ad ecke skie epter hanns Forsiaa og Tillaatseme / þa eigum vier þvi eins vel ad taka sem kiemur af Mannanna Hende / so sem hinu er hann sialfur a oss leggur / þvi ecke einn Titlingur fellur a Jørdu aan vors Himneska Fødurs Vilia / Matth. 10. Þvi mun oss þa nockurt þad henda sem ad hann ecke vill ad vid oss framkome / og þetta er þad sem ad DRottenn JEsus fyrer seiger synum Lærersveinum i þessu Heilaga Evangelio um Ofsookner vondra Manna / og seigest þess vegna tala þad til þeirra ad þeir hneixlest ecke / og ad nær sw Stund kiæme / ad þeir þa minntust þess ad hann sagde þeim þad / og vill hann þad sama sagt hafa øllum synum Børnum um allann Heimenn. Þvi vil eg nu af þesse um Spaadoome DRottens / sierdeilis Tvent Hugleida i þetta Sinn / Sem er.

1. Ad vier sieum skyllduger til ad giegna þvi med Þolenmæde er vier lydum af vondum Mønnum Sakleysesins og Guds vegna. 2. Ad vier eckert rangt giørum til ad umflyia þeirra Ofbellde. Hier til hiaalpe oss goodur Gud fyrer sinn Son JESUM CHRISTUM / AMEN.

## Utleggingenn.

ÞEIR Munu FORboda YDur seiger DRottenn / Og Sa Tijme KIemur / Ad HVer Hann Lijflætur Ydur / Hann MEinar Sig Ad GJøra Gude Þægt Verk. Vid hveria sagde Frelsarenn þetta? Vid sijna elskuliga Lærersveina / hverier hm̃ ann Efa hafa af Mønnum kiærast er vered / hverier ad høfdu hans Vitne um þad ad Faderenn elskade þa af þvi þeir elskudu sig / og allt þetta rættest a þeim sem vonligt var. Hver sem athugar Nudstrokur St. Paals / 2. Cor. 11. Fangelse Peturs / Act. 12. Lijflaat hins ellda Jacobi / Act. 12. og Beinbrot hins yngra. Jaa / hversu ad aller Guds heilager Menn z Votter JEsu Þijslar eru herfe-

lega utleikner/so sem lioost er af Christendooms Søgunum/ Nañ mun þad jata/ ad eckert Ord DRottens sie a Jordu falled. Nu fyrst hm̃ þocknast hefr ad lata sijna kiærustu Vine þtta lijda af vondũ Mønnũ/ þvi skyllder þu og ecke fyrer Guds saker lijda vilia/ þ sm̃ einhver Ohlut vandur vid þig aflaga giører? Og taka þvi so ẽ ødrũ Krosse af Drottens Hende. Ad søñu reyner ecke a þad fyrer oss i þessu fatæka Lande ad þola Offsokner edur Lijflaat fyrer Evangelij Lærdoom edur Christi Vidurkieñingu/ samt eiga Menn þo Gud ad dyrka med goodũ Verkũ/ med þvi ad hialpa hinum Saklausa / og þeim sem Orietteñ lijdur til Riettarens/mootstanda þeim sem illa giøra/og margur lijdur Oriett ꝥ Sakleyse/og fyrer þad sem hñ med soddañ Nætte gott giører/eñ aller þr ed þañ Veg lijda/þeir lijda fyrer Guds Saker. Gud hefur boded ad hialpa þm̃ ẽ Rangindeñ lijda og underþryckter eru af Ofrijkis Mønnum. Villt þu ecke frelsa hiñ fangada sem til Dauda er dæmdur / og þañ ẽ ad liggur vid Lijflaate/þar þu seiger: sia vier þeckiũ ecke þeña/ meinar þu ecke/ad hñ sm̃ rañsakar Niartad/hñ merke þad? Og hñ sm̃ tekur Vara a Saalu þiñe/hñ þecke þad : Mun hñ ecke gialldá hverium Mañe epter Verkum sijnum seiger Salomon/Prov. 24. Þetta vill nu hiñ ædste Domare hafa sagt þm̃ ẽ meire Mattar eru z kuña ad hialpa þm̃ sem Oriett lijda/seiged mier/ Mun hñ Syknsaka vera ef hañ giører þad ecke. Nei/litlu betre eñ hiñ sem Orietteñ giørde/eñ þott hñ meige Armæsũ mæta þar fyrer/þa a hañ þad ad lijda med Þoleñmæde/ fyrer Guds Saker. Gud hefur boded ad elska Naungañ/ og þad ecke einasta med Orde og Tungu seiger Postuleñ/helldur med Verke og Sañleika/1. Joh. 3. Eñ hvad er tijdara i Neimenũ/helldur eñ Vanþacklate fyrer Goodgiørdernar. Drambseme Ohlutvandra Mañа er so hávær og so Natklundud/ad hun þykest eingum vera um̃ neitt skylldug/hversu mikla Velgiørder sm̃ hun þiggur/og alla Nlute vill hun med Sialfskylldu hafa/ eñ giélldur hin versta Laun fyrer allt undañfared/ef ecke er Grædge hennar fullnægt i hveriũ þm̃ Nlut er hun hafa vill. Full er Verolldeñ af slijkum Sialfbyrgingũ/þr sm̃ nu fyrer slijku verda/sem margur er/þr lijdg Guds vegna/þvi þr lijda fyrer þad sem Gud hefur

boded/

boded/hvert þr meiga ecke Ogiørt lata/ef þr vilia christn. Men þeir ta/ z Guds Viner/þvi hver ad sm̄ sier sin̄ Brodur Naud lyda z aptur lykur sitt Hiarta fyrer hm̄/ hvernig ma Guds Kiærleike i hon̄u vera? seiger Johan̄es/1. Pist. 3. Og meiga þr þ ecke reikna þott ad Heimuren̄ giallde Illu a mote Goodu/þvi Paulus seiger/Rom. 12. Ef Ovin þin̄ hungrar/þa gief honum ad eta/og þyrste han̄/þa gief hm̄ ad drecka/ z meigū vier ecke vera vandare hier um̄ en̄ Fader Myskunsemdan̄a/hver ad i giegn sin̄e Outseigianligre Goodgyrne þoler hina mestu Opock af syndugū Mon̄ū/og lætur þo rigna yfer Vonda og Gooda/og skina Sol uppren̄a yfer Ranglata og Riettlata/Matth. 5. Þvi skulū vier ecke meina/Br. M. ad þta sie alleina sagt til Postulan̄a edur þra sm̄ lifdu a þm̄ Døgū/ þvi eingen̄ er su Stiett sm̄ ad nockur Madur lifer i/ ad eige mæte hn̄ Andstreime og Adkaste Veralldar/ef hn̄ leggur Kapp a ad giøra Verk Drottens Guds syns trulega. Þvi er æ verr og midur/ ad þeir eru flester sem skiooka þessu Omakenu hia sier/uppa þad þeir meige i Fride vera: Hvad er ecke eirn̄ Guds Ords Þienare/ef hn̄ er Vand lætingssamur i synu Embætte? Mun hm̄ ecke Ovilld og Man̄hatur bued vera? En̄ seiged mier/ mun han̄ þar þ meiga lata af ad straffa/ Ogna og amin̄a : edur elska þa og þra Velferd er hm̄ so illa launa hrn̄ mesta Velgiørning er af syndugū Man̄e kan̄ vid an̄an̄ giordur ad vera? Mun hn̄ ecke meiga þenkia hid sama og Paulus : er hn̄ sagde : Gal. 1. Hefde eg hyngad til Mon̄ū þocknast/þa være eg ecke Christs Þienare. Og þetta er riett ad taka sin̄ Kross uppa sig og fylgia Jesu epter/Matth. 10. Sa giører vel sm̄ lydur med Polenmæde þad Gud a hn̄ leggur/og hn̄ gietur ecke af sier kastad/en̄ sa giører en̄ þa betur sm̄ med fusū Huga geingur i Bardagan̄ a moote Fiandanū og hn̄s Verk færū/þar hn̄ kyn̄e þo ad skiooka sier undan̄ sm̄ marger giøra/hn̄ er eirn̄ Guds Kappe / og ma vænta sier þeirrar Kvediu sem Gedeon fieck af Einglenū fordū/Drottenn er med þier þu Hetia/ Jud. 6. Hvad skulu Men̄ tala um̄ eirn̄ rietkvoddan̄ Domara/ef Men̄ eiga þo fyrer mørgū þvilykū Raad ad giøra i hreckvysre og skynlausre Olld þessare. En̄ ef nockur er sa er vanda vill sitt Embætte med Roksemd og Stiornseme

nockurre/og hallda uppe christelegri Rietkendu/þa er hm ecke einasta a Nalse leiged af þm er þvi mæka/sm ecke er so ad undra/þvi blindur er hver i sialfs sijns Søk/helldur og af þeim er þad eckert vidkiemur og eige skynia hvar um þr dæma/Jæ/mæter Arausu af þm er sialfer ætlu hvad mest Rietkenum fram ad fylgia/ hveriet ad bruka Løgeñ eins og Reikne-Peninga þa er Meñ læka merkia so mikla edur litla Tølu/sm Meñ sialfer vilia. Aller þr ed nockruOskunda fyrer verda af so hreck-vijsu og heimsku Mønum/ þr lijda fyrer Guds Saker/ þvi hñ er sa ed sagt hefur fyrer Muñ hins vijsasta Konungs/Sa s rietklater hiñO-gudlega og sakfeller hiñ Rietklæta/þr eru bæder eins Svqvirding fyrer Gude/Prov.17. og eru ecke alleina þr ed i Guds Stad vandlæta eiga med Ordum/edur þr sm yfer Riettenñ skipader eru/ þessu Mookgange vondra Mañа undervorpner / helldur hefur Diøfulleñ sijn Verkfære nærre þvi i hveriu Huse til ad spilla Christneste og goodu Sidu. Eiñ vandlætur Husboonde mæ slijku mæka af sijnu Hiuñ/ af sijnu Børnuñ a Stundu/jæ/af ødru ut i fræ sem ecke hyrda um ad vanda Raad sitt/ og ammæla þm er adra vilia hafa aptur af Illu/giefa þm slijkeñ Ord/ z kalla ad þr eige eckert mz sig/ þr mune bruka sijna Sidu þm ad Pack arlausu. Þetta er ecke lijtil Skap-Raun Børn M. fyrer þa sm oftast Drottenñ og ængtast af ad siæ Ogudlegt Framferde/og siæ fyrer þra Tijmanligar z eilijfarO-farer eñ fæ þo eige vid þm giort sokuÞver moodsku og Stiækskapar hiña er þr villdu leidriett hafa/Jæ/pad er þm meira Angur helldur eñ margt þ er a siælfum þm liggur. Eñ all er þeir ed fyrer þvilijkt lijda meiga nockurt Adkast/ Illyrde edur añad verja/þr lijda fyrer Christi Saker/ þvi Gud hefur skipad ad uppala sijn Børn i Lærdoome og Umvondun Drottens/Eph.6. Nañ hefur boded ad vier skulum leidrietta þa er viller fara med hoogværu Anda / Gal.6. Jæ/ sa ed þad ecke giører nær hñ sier siñ Broodur villt fara/ hañ samþyckest hm/ og giører sig Hluttakara i añarligum Syndu/1. Tim.5. Og hefe eg nu þañeg sijnt Br. M. ad sierhver eiñ af oss gietur sitt Hlut i þessum alvijsa Spaadoome Drottens/ef vier vilium þyckia þ Gud edur vandlæta i hñs Stad/þvi alloret þrytur þar Andskotans

Børn

Þegar þau er giefe þm̄ Orſøk þar til er Drotteñ olkaſt/ og erra þvi
illa ad hn̄s Dyrdarfulla Nafn ſie vanvirdt/ hn̄s Ord forſmaad og hn̄s
Setningar vyſſvitande under Footū trodner / og Þott ad Mañi ſie O-
hætt uppa Lyf z Landsviſt/ þa er þ eige fra Giæſku ad þacka/ ſm̄ allt
Gudlegt Skick z Riettende forſmaa/ þvi hn̄ s ad hatar eiñ Gudsorde
Þienara þ Heilſuſamlega Kienningu/ edur eiñ Yfervallds Mañ þ riett-
añ Dom/ Ja hn̄ ſm̄ bølvar Fødur og Modur/ Huſbændū edur ødrum
þm̄ ſm̄ hn̄ leidrietta vill/ hn̄ er ecke langt fra þvi ad taka Lyfed af hm̄/
edur reka hañ ur Lande/ ef hañ þad þyrde vegna Hefndareñar. Nu er
Þ[...]u ſo vared ſem eg ſagt hefe Brædur myner/ og þvi verdur eige mikt
ſagt/ eñ allt ſtra eigū vier Þoleñmoodlega ad lyda fyrer Guds Saker/
og ecke hataſt vid þa er vier meigū þola þad af/ helldur giora Skylldu
vora med Þoleñmæde. Giæſkū þiſ er Frelſareñ ſeiger hier i Gudſpiall-
enu: Ad þeir ed giøre þetta / meine ſig ad giora Gude þægt Verk/ ſo
kuña og hiner Skynlauſer ad vera/ ad þr ælle ſier ſie Orrettur giør/ og
þeir ed j m̄ vel vilia/ giøre þetta af Offa og Illgirne/ Læt þier þo til
Hugar koma ſyndugur Madur/ ad þad er Oriett fyrer Gude þynum/
hverium þu þionar/ ad hataſt vid ſo ſkammdar Maðkeſkiur/ þvi þeir
eru ecke Naturs/ helldur Medaumkunar verder/ hverſu vollduger edur
vyſſer/ hverſu ryker edur ſterker ſem þeir eru/ þa eru þeir allra Skiepna
Veſælaſter/ er ſo hafa gleymt Gude og ſiñe Velferd/ ad þr ſkynia ecke
hvad þeim er til Gagns edur Ogagns. Þetta giøra þr ſeiger Frelſar-
eñ/ af þvi ad þeir þeckia hvørke Fødureñ nie mig. Ef ad Nauñdur byt-
ur nockurn/ edur Neſtur ſlær hañ / hønum kañ Madur ecke ſo ad reid-
aſt ſo ſem einū Mañe ſem Gud hefur Vit og Skyn giefed/ eñ hm̄ O-
gudlege ſa ed ſeiger i ſynu Hiarta/ þar er eingeñ Gud/ Pſ. 14. hañ er
argare eñ Neſtar z Mulár/ hveriū Meñ hliota Beiſle z Bitel i Muñ
ad leggia/ Pſ. 32. og þvi ſkyllda eg þa vilia hefna myns Vanſa a ſodd-
añ Andſkotans Viñudyre/ ſem ei veit hvad þ giører. Meñ láta Oods
Mañs Verk vera ſaklauſt vid Konungeñ epter Løgunū/ og j vr ſkylldu
Meñ þa ecke hafa vidlyka Myſkun vid hñ/ ſem ſo er yfergiefeñ i fram-
deiſt Siñe/ ad hñ hverke þecker Gud nie hn̄s Chriſti; z ecke miklu helld

yr

ur leitast vid ad Leidrietta hn/helldr en vilia hns Olucku. Lijt til þijns Endurlausnara þar ed han hieck a Krossenu/ og beidde fyrer Ofertrod siu Mönnu/ ja/ þeim er giördu a moote hm þa allra stærstu Suijvirding sm nockurn Tijma hefur framen vered a mille Nimens og Jardar/ og þo villde Brutur Stiaskufar lata þta fyrer Afbøtun gyllda/ Þeir vita eige hvad þr giora/ Matth. 27. Og hversu lijted er þ nu sem þu matt lijda af þm s ecke eru kanskie ollu syndugre en þu þ hns skulld/ hia þvi sem hn leid Saklaus þina vegno. Þar fyrer/ nar sm eithver Veralldarennar Sonur mootmæler oss þegar vier giöru Guds Verk/ þa hugleidum hvilijk Vegsemd þad er ad lijkiast hans Eingietnu Syne i þvilijku/ og spillum ecke þeim Neidre med Opolenmædene/ þvi ef vier giörum þad viliuger/ þa hofum vier Laun/ en giöru vier þad Naudnger/ þa er oss þad þo uppalagt seiger Paulus um sig/ 1. Cor. 9. Og þeinkium ecke ad Læresveinnen sie yfer Meistaranu / hafe þr Hus-Födurenn Beelzebub kallad / hvad munu þeir giöra vid hans Heimamenn þ Matth. 10. Og þssa Ihugan munu vier lata spekia Hiarta vort ef vier meir fangrunst af þvi s Gude er i þssu a moote giort / helldur en sialfu oss/ z blondudu ecke hveriutveggia þessu saman. Og ma þ ecke letia oss/ þott ad lijted vilie morkast vid vera Tilhiægian i Guds Stad. Heyrtu hvad sialfr Christur seiger/ Es. 49. En eg sagda/eg erfidade forgiefens/ og fyrerkiæme so mijnum Styrkleika fyrer eckert og til Onytes/ þo ad mitt Malefne sie Drottens/ z mitt Embætte mijns Guds/ en þar um her Raun Vitne/ hverneg han blessadur Nolldeinu Iklædd ur sagde allan Hug a Guds Eyrende. Hver hefur þvilijk Mootmæle/ Hadungar/ Brixlaner/ og allra Handa Ovirdingu þolad fyrer Guds Verk s hn? Eckert er tijdara i Heimenu en þ ad hn skipast ecke vid þra Adgiörder/ s Guds Eyrende reka/ samt vill Gud þ þe giora latt/ sijnu Nafne til Dijrdar/ og þm til Nota er þ medtaka/ en hinu til þss stærre Fordæmingar/ og ma þig einu gyllda syndugan Man med hveriu mote þu Gud dyrkar. Drottenn Jesus visse ad Judas var Glötunarennar Son ur/ samt kalade hn Guds Eyrende fyrer hm/ advarade han þad sama Kvolld og hn svek hn um Nootlena/ Joh. 13. minnte han i þvi hvan

svik

sveik hañ/Matth. 26. Þu verdur fyrer Ovirdingu af Heimenum/eñ seig mier/ Er nockur Virding stærre? Nockur Nafnboot so føgur/so ꝯ Guds Barn ad heita? Nu seiger Endurlausnareñ/Matth. 5. Blessed þm̃ er ydur bølva/ giored þm̃ gott sem ydur Offsækia/ so ad þier sieud Børn ydar Fodur sm̃ a Himnũ er/ þar fyrer hver sm̃ hugleider eilijfa Himnarijkes Glede og Føgnud Guds Barna og ecke reynger Sañsøgle Christi/hm̃ mun lijted þykia fyrer ad lijda nockur Hallmæle og Arœser af Vitlausũ Moñũ hier i Heime fyrer þad Dijrdlega Verdkauped/ sem er noglegt a Himnũ/Matth. 5. Hier til lijtur David er hñ seiger/ Ps. 27. Eg munde snart hafa yfergiefed mig/ef eg eige tryde ad eg siæ munde Giæsku Drottens a Lande lifande Mañа. Og vilium vier þra Dæmũ fylgia er JEsus talade þra vid og þra Sampioona/ þa skulum vier ecke fiña ad þeir hafe stoorũ Oþoleñmooder edur reider vorded/nær þeir voru Falsklega æklagader fyrer Herrum og Landsdoomurum. Hvad sk eg tala um̃ hid saklausa Lambed/Guds Eingieteñ Son/ þegar þeir søgdu hañ være Samverskur og hefde Diøfuleñ/ Joh. 8. Svarade hñ alleina þessu: Ecke hefe eg Diøful / helldur vegsama eg miñ Fødur. Þegar Judas sveik hañ/Vinur hvar til komst þu hijngad? Matth. 26. Þvode Svikarans Fætur/Joh. 13. Skom̃u ædur eñ Diøfulleñ foor i hañ / Þegar Biskups Þienareñ sloo hañ/ Joh. 18. Hafe eg illa talad/þa bevijsa þ/og hafe eg satt sagt/hvar fyrer slær þu mig? O þier aller hñs Viner/øll hñs Børn/aller hñs Læresveinar/ aller sem vilied hm̃ i Dijrdeñe epterfylgia/ Komed hijngad og læred af hønum/þvi hañ er Hoogvær og af Hiarta Lijtelætur/Matth. 11. So var hñ Þoleñmoodur sm̃ ecke visse af Synd/2. Cor. 5. og ætte þo alls Valld/bæde a Himne ꝛ Jørdu/Matth. 28. Eñ þu sm̃ Daglega syndgar og ecke forþienar añad eñ Straff/munt þu ecke jæta ad Gud hafe allañ Riett til ad straffa þig? Jæ þ munt þu ad vissu jæta/Eñ seig mier/mun hñ þa ecke frialst eiga med hveriu moote ad hñ typtar þig/ mun Barned nockud sijsla um̃ vid Fødureñ/hvert helldur ad hñ straffar þad med Hende edur Vende? Þad heyrdest ecke a Job/Cap. 1. hver oss er settur fyrer Þoleñmædeñar Epterdæme/ hvert helldur ad Gud liet

 Elldeñ

Elldeñ falla af Himne og brefia hañs Eigur/ellegar ad þr af Caldea og Saba ræntu hñs Gotze/ J øllu þssu syndgade ecke Job seiger Ritningeñ / helldur sagde hañ : Gud gaf og Gud aftook / Sie Nafnid DRottens lofad ad Eylijfu. Pad er ein Hræsnisfull Þoleñmæde ad seigiast vilia þola allt þad sem Gud leggur a/eñ vilia eckert Mœtkuñ lijda/eins og þeir giøre nockurt þad er hñ leyfer þeim ecke/sa sem Lijf læfast a/hñ fyrergiefur Bødleñ/eñ slær allre Skulldeñe uppa Doom arañ/Nu gietñ vier ecke giefed Gude Skulldena/þvi vier sialfñ ad vier hofñ til alls þess uñed sem hañ a oss leggur/ og þvi skylldum vier þa reidast hañs Bødlum sm̃ eru vonder Meñ/þott hañ leyfe ad þad a oss framkome sem hñ visse ad þeir af sialfs Dæðñ munde Orietf giøra/ sierdeilis þar vier erñ sialfer vonder/ þar fyrer hversu sm̃ þ er Orietf vgst af þra Hende/ þa er þ af Guds Alfu riett/ og eckert añad eñ vor forþient Laun / og vilie einhver þvi ecke trúa ad Gud stiorne i þañ Mæla Verkñ Omilldra Mañ a/skynu Nafne til Dijrdar eñ sijnñ Børnum til Leidrietlingar(þvi allt verdr þm̃ til Gooda er Gud elska/Rom. 8.) Hañ lese þer stendur i Bæn Postulaña/Act.4. J Sañleika komu þr samañ yfer þiñ H Son JEsum/ hvern þu smurt hefur/ Herodes og Pontius Pilatus med Heidinginum og Jsraels Folke til ad giøra allt þ er Hønd þijn og þitt Rad hafde æsett ad ske skyllde. Hafe nu Guds vollduga H ønd (pt' sijnu alvijsa Rade stiornad ogudlegra Mañ a Verknade og Alhofnñ i Fordæmingu sijns Eingietens Sonar þier til Saluhialpar z Mijskunar christeñ Madr/þa læt þig ecke undra þott hñ stijre þm̃ til ad aga þitt lauslæta z drambsama Holld/til ad temia þig sijfadañ Kalf eins z Ephraim/Jer. 31.) þier til Andligrar Heilsu bootar/ helldur minst þess nær ed vonder Meñ þier rangt tilgiøra/ad þu hafer þad med þijnum Syndum forskulldad/og munt þu bradlega suua þvi Hastenu er þu far til hñs/ er vid þig afgiørde a þijna eigeñ Synd med Harmþrungnñ og sundurknosudum Anda/þad er þ Offrid sem Gude lijkar/ Ps. 51. So giørde David Konungur/ 2. Sam. 16. Er Simei bølvade hønñ/og kastade Steinum a hñ/eñ Abisai sagde: Þvi skyllde þesse dauduz Hundur bølva mijnum Herra Konungenñ? og

vil fara og taka hñs Høfud af/eñ Konungureñ svarade: hvad hefe eg med ydur þier Børn Zeruja/hafe Drotteñ skipad hm̃/ bølva þu David/ hver vill seigia? Þvi giører þu þañeg? Og er nu so uttalad um̃ hiñ fyrra Parteñ.

2. Hvad hinũ sijdare Partenum vidvijkur/ þa er oss þ sagt ad vera/ad vier eigũ fyrer eingũ Mañe svoddañ Virdingu ad bera / edur ad noekurs Mañs Elsku edur Otta so miked ad læka/ad vier þss vegna styggiũ vorn Gud a mote Samvitskuñe. Þad er oss vitanligt Br. M. ad noogu eru margar Synder vorar sm̃ oss henda af vors eigeñ Holldz og Bloods Tilleigingu til ad fordæma oss/ þott ad ecke styggiũ vier hiñ goda Gud med þvi ad taka synduga Meñ fram̃ fyrer hañ. Gud bijdur i sijnu N. Løgmæle/ Þu skallt ecke hafa aññarliga Gude fyrer mier/ þ er hid fyrsta og hid ædsta Bodord/ Matth. 22. Og þegar þ er broked/ þa eru øll brotteñ/ eñ hvad giøra Meñ þegar þr giøra alla Hlute ad Mañañs Villd/ hversu Ogudliger sem þr eru/ eñ kasta Guds Bodordũ a Bak sier aptur? eñ þ er ecke ad dyrka eitt lifanda Skurgod/ ja/ þañ sm̃ er verre eñ eitt Skurgod / þvi eiñ Tre-Stobbe er saklaus þott hañ sie dyrkadur: Nim-Tru Mañañs giører hañ ad Guds Virdingu/ eñ sa sm̃ okkar ødrũ til ad giøra Odygder z sierhvad þ sm̃ Gud hefur bañad/ hñ er Diøfull/og sa ed hñ dyrkar/ hñ dyrkar Diøfuleñ/ þu seigest ecke dyrka hañ þott þu giører þ sm̃ hñ bijdur/ þu viter ad Gud sie ædre og øllu betre/ og hñ eiñ eige ad dyrka/ þad er Illt ad þu veitst þ/ þ vill fordæma þig eñ þa meir/ helldur eñ ef þu þad ecke visser. Eñ seig mier/ J hveriu er nu Guds Dyrkun iññefaleñ? J þvi ad trua a hñ/Elska hñ og Ottast/ z giøra epter hñs Bodordũ. Eñ seig mier aptur/ hvern ottast þu meir/ Gud edur Mañeñ/ nær þu hrædest hñ sm̃ ecke kañ ad deyda nema Lijkaman/ eñ forsmæer Gud sm̃ Lijfe og Sælu gietur kastad i eilijfañ Elld? Matth. 10. A hvern truer þu meir/ nær þu þykest emkis Þurfe er þu hefur Mañsins Vinattu a medañ þu hræsnar þ hñs Borde/ eñ so lijt ed reider þu þig uppa Gud sm̃ þig skapad hefur/ fædt og forsorgad/ ad þu viñur þ til ad missa hana ecke/ ad þu grører alla Hlute sm̃ Gud bañ ad hefur? Hvern elskar þu meir? Er þu villt jafnvel fara til Helvijtis

þ Mañen/ eñ þ Guds Saker fiendsi þu ecke ad sia hañs Reide-Svip/ er þu meinar ad hafe nockud af þiñe Tymanligre Velferd i Hende sier. O vei/ O vei/ er ecke þvilijkt ein hrædeleg Afguda Dyrkun/ og miklu verre eñ øll Sothvirding Heidingiaña þeirra er af Gude eckert vissu z Paulus seiger/ 1. Cor. 8. Ad Skurgoded sie eckert / og hræddust þeir þo Skurgodeñ er þau dyrkudu/ eñ Christner Meñ/ hverium Gud er i Holldenu Openberadur/ þr Ottast Meñena meir eñ Gud/ jafnvel þott hañ sie allt i øllu/ og þykiast vel hafa komed Kaupe sijnu ef þr fa fellt Guds Vinaatku fyrer Mañsins Kiærleika/ edur til ad umflija hañs Oblijdu. D. Rotken seiger fyrer Munn Oseæ Spamañs / Cap. 2. Um Gydingaña Samkundu / Hun þecker ecke ad eg er sa sem gief heñe Korned og Mustena og Oliuna / og eg fæ þeim ænægianliga Silfred og Gulled af hveriu þeir giøra Baal/ hversu vel a þetta heima hia þeim/ er hiñ goode Gud veiter alla Hlute yfersfliootanliga til Notkunar/ eñ þeir ecke einasta utsluga Hus Eckna og Fødurlausra/ Matth. 23. Og selia hiñ Volada fyrer eiñ Skoo/ Amos. 2. Helldur og giera sier eitt Afgud af þessu i Hiarta sijnu/ hvert ed vera ætte Mustere H. Anda 1. Cor. 6. Þad er Sothvirding Foreidsluñar i helgum Stad/ og þ er þm̃ ecke nog ad þr dyrke hañ Einsamler/ helldur eins og Nebucadnezar liet uthroopa ad hver Madur under Lijfs Straff skyllde dyrka Bel/ so vilia þr fyrer þessa Sothvirdingu af øllum heidrader verda/ og ad aller hlijde þra Bode og Bañe/ hversu sm̃ þ er Orett z Ogudlegt/ z þsse Vanmeñe ottast Meñ framar eñ Gud z hañs Sañleika/ edur hvad er sijdara eñ þ: Adner eru Lijtilmagne a vid eiñ Magtar-Mañ/ þorer eingeñ Muñenum upp ad luka / eingeñ Sañleikañ ad vitna / þeir hlaupa i Felur/ og hafa adskilianleg Undañbrøgd til þess ad Dyggden verde ecke stroffud/ eñ Sañleikureñ i Lioos leiddur/ ja/ giefa sig helldur Fiandañs sijnu Fødur/ helldur eñ ad þr stygge hiñ Vollduga/ og jafnvel a stundū þañ o þm̃ kañ eckert Mein ad vinna/ Ecke er þetta Christendoomur/ bærelegra mun einū Ærligum Heidingia verda a Doomsens Deige/ Matth. 11. Helldur eñ þvilijkū Diøfulsins Hamhleypū. Hvad kuña Meñ þo ad sia þad a einum daudligū Mañe/ hversu Volldugur

sem

sem̄ hn̄ er/ ad Men̄ Ottest hn̄ meir en̄ Gud? Han̄ kan̄ ad fyrra þig allre þiñe Aleigu/ þad giefur og Gud i Augabragde/ han̄ kan̄ ad steipa þier ur Heidre þijnū/ mun Gude nockud bagt um̄ þad vera? Han̄ giefur sett þig i Fiotur og Jarn / Gud giefur steiged þig med skiædū Sruckdome/ hn̄ giefur teked Lijfed af þier/ og er þo ecke hætt vid þvi i Lande voru/ en̄ Gud kan̄ ad deyda eilijfū Dauda/ z setia þa er hn̄ forsmaa/ i þ Fangelse hvadan̄ eingen̄ Endurlausn er/ Matth. 18. Hvert er nu meira? Eg vil taka til þss mesta Skadrædis er Meñerner kuña ad giora/ þ er Dauden̄/ en̄ hvad er hn̄ hia Helvijte? Þad er so Ognarlegt / ad eg er viss um̄/ ad ef nockur mætte sia Þijsler Fordæmdra/ munde hn̄ hlaupa ut i þusund Daudans Hættur/ til þss hn̄ sæe þær alldrei optar/ og þo fliuga Men̄ med Seglū og Arū undan̄ eiñe Vatns-Bolu/ sem̄ þo kan̄ ecke ad skada oss nema a Lijkamlegre Velferd/ og þ þo ecke framar en̄ Gud leifer honum. Nu ef þu atter allt þad er þu kiærast hefur ad missa/ þ hvern er þier skylldara ad missa þ? Fyrer Gud edur hin̄ Ogudlega? Mun Madurenn hafa skapad sig? Hefur hn̄ giefed þier Lijfed? Hefur hn̄ forsorgad þig fra Moodurlijfe? Hefur hn̄ giefed þier Goos og Peninga? Hefur hn̄ upphafed þig til Heidurs? Hefur hn̄ verndad þig og allt þ þier vidkiemur? Mun eige lijkara ad þu misser þ hn̄s vegna/ er missast skal/ sem gaf þier þad i Fyrstuñe/ og þvi hefur ollu vid Magt hallded/ allt til þssa Dags/ helldur en̄ hiñs sem̄ þier gaf eckert af þssu? Þvi þad hn̄ kan̄ske gaf þier/ þ took hn̄ af Guds/ og jafnvel þott hn̄ hafe stoled þvi fra Naunganū og er vijsastur til ad taka þad fra þier aptur og margtū meira/ þad fyrsta honum̄ reñur i Skap vid þig/ þvi so er Vinatta Heimsins. Eg vil eige þar um̄ tala/ ad sa sem hræder ein̄ til ad giora Oriett Einusiñe/ han̄ hefur hn̄ þ skulldbunden̄ Þræl z ollū Skomū og Odygdū sijdan̄/ og viste hn̄ ecke/ þa er honū Oluckan̄ buen̄/ þvi so plagar Heimur þesse ad launa synum Þienurum/ Ja/ hn̄ skal ecke vita sier hiñ minsta Ohagnad til ad forsvara hn̄ ef hn̄ yrde af odrū þar um̄ sooktur/ helldur mun hn̄ svara eins og Gydingar Judæ/ hvad kiemur þad vid oss/ Sia þu fyrer þvi/ Matth. 27. Og kuña þr sier ecke betre Side helldur en̄ fra oringe Diofullen̄/ þvi so breyter hn̄

 vid

vid þa er hönũ liuuast til Þiönustu/hañ teiger þa fyrst til Syndareñ-
ar / og launar þm̃ sÿdañ med eylÿfu Helvÿtes Bale / og þañeg er þ ad
ottast Meñena framar eñ Gud. Eñ hverneg launar nu Gud aptur þm̃
er stöduger standa i hñs Þiönustu/og ecke ottast Mañeñ? Þad mä oss
af Dæmunũ kuñugt vera / Hañ launar öllum goodũ Launũ bæde hier
og Eylÿflega/satt er þ ad mørg eru til þss Dæme ad hñ hefur giefed
sÿna Astvine i Mañaña Valld/ þo alldrei so ad hñ ecke hafe vered þm̃
til añarar Nandar. Eg er viss um̃ ad St. Päll er hñ stood fyrer Festo
og Agrippa/ Act. 26. hefur unad miklu betur Hag sÿnum hielldur eñ
hver af hñs Aklagendũ / hveria Reideñ og Hatred so plagade ad þeir
eyrdu eingu nema þeir feingiu hönũ i Hel komed/añars hefde hañ ecke
Oskad þm̃ ad þr væru þvilÿker sm̃ hñ. Þegar hañ hafde i 14. Daga
hrakest i Siäfar-Olguñe/og aller örvænku sier Lÿfs/ sende DRottenñ
siñ Eingel til hñs/ Act. 27. Og liet seigia hm̃/Ottast ecke Päll/þier
byriar ad koma fÿ Keysarañ/ z hversu ad hiñ mätkuge Gud hafe mätt
ugur i hönũ vered fyrer Keysarans Doome/ þvi lÿser hañ/ 2. Tim. 4.
seigiande: J mÿnu fyrsta Forsvare var eingeñ hia mier/hielldur yfer-
gäfu mig aller/eg Oska ad þ verde þm̃ ecke tilreiknad/eñ Drottenñ var
hia mier og styrkte mig so ad Evangelÿ Bodskapur yrde fullkomnadur
fyrer mig/ og þ heyrdu allar Þiooder/ og eg vard Frelsadur af Muñe
Leonsins. Og þoott ad Gud tale ecke so bersÿnelega vid oss a þessum
Dögũ/so sm̃ hñ þa talade vid Päl/þa talar hñ sämt i sÿnu H. Orde/
og dregur allañ Efa af þvi ad sa sm̃ hm̃ treyster i öllu Ærlegu/ öllu
Riettvÿsu/öllu Guds Eyrende/hñ mun alldrei til Skamar verda/þott
hñ sÿnest ad hafa oss i Mañaña Valld giefed um̃ Stundarsaker/þvi
þ Ord stendur stödugt/Gud þecker þa sem hñs eru seiger Postuleñ/ 2.
Tim. 2. Drotteñ er miñ Styrkur/eg ottast ecke hvad mun mier Mad
ureñ giöra? seiger David/ Ps. 117. Eiñ goodur Fader þegar hñ hefur
strykt Barned/ þa kastar hñ a stundum Vendenum i Eldeñ og breñer
hñ/og so breyter Gud vid Skälkana/ hveria hñ brukar optlega til ad
hyrta sÿn Vorn med/ þvi skylldu Meñ þa ottast þa/nær Meñ hafa
so sterkañ/so Riettvÿsañ z so Giafskurkañ Forsvars Mañ s Gud er?

Þad

Þad mun gänga þeim eins og St. Pall spaer/ 1. Tim. 3. um Villu Meñena a sijnū Døgū/ hverneg hñ samlijker þm̄ Jannes og Jambres er mootstoodu Moisi/ so standa þsser i giegn Sañleikanū (seiger hañ) fordiat fader Meñ i Hugskotū/ frahverfer Truñe: Eñ þr munū eige meiru frañkoma/ þviad þra Fasiña mun øllū opeñber verda so sem og hiña vard. Og þott ad Guds Astviner ecke eige ad fagna yfer Olucku Fiandmaña siña/ miklu helldur bidia Gud ad giefa þm̄ Leidriettïng til Ydranar sem Paulus bijdur/ 2. Tim. 2. og seigia: Verde þiñ Vilie/ þa samt er þta ein Obrygdul Huggun fyrer þa sem reka Guds Eyrende nær þm̄ motmællt verdur/ ad hñ er þra Styrkur sm̄ ad jafn vel seiger til Siafar-Hafsins/ hijngad skallt þu komast z ecke leingra/ hier skulu þijnar stolltar Bylgiur leggia sig/ Iob. 38. Nær vier erum i Vinattu vid hñ/ þa kañ eingeñ Ovinur ad granda oss/ og nær hñ er Ovinur/ kañ eingeñ Vinur ad hiælpa oss/ þvi skyllde eingeñ voga hid miñsta moote Gude ad giøra þ Oita edur Elsku saker vid hñs Ovine/ þr vega aller miña eñ ecker/ Ps. 39. J mier hafed þier Frid/ eñ i Heim eñū hafed þier Angist/ vered Otrauder eg hefe Heimeñ yferuñed seiger Frelsareñ/ Joh. 16. Hvad kuña oss Meñerner ad giøra/ Ossækia oss/ Fe fletta/ hallmæla/ bryxla og vanvirda/ Eg vil þ allt þusundsiñum helldur lijda/ eñ ad vita mier i miñsta Mæta Von hañs Obllijdu / þvi ad flyta undañ Mañsins Vallde under Guds Reide/ þ er ad hlaupa und añ Snæ-Tiofenu til ad verda þ Reidarslagenu/ hversu miklu betra er/ sæ miklu giedelegra alla Hluke ad þola þ Christi Nafns saker / epter þre Mælingu sm̄ hñ veit ad sierhver eiñ bored gietur/ og oss mun þarf legast/ Sæ Dijrdar samlegast og Fagnadarsælast verda/ þa vier munū i hñs Rijke med hm̄ eilijfū Sigre hroosa/ þvi hver sm̄ hitt utvelur/ hañ mun ad þessu tvennu vijsu gänga / añadhvert Eilijflega ad fyrersarast med Heimenū / edur ad taka so mikla Ydran fyrer þ sm̄ hañ liet epter Heimenum a moote Guds Vilia/ sem kañ ad sambiooda þeirre Ohamingiu er hañ hugdest ad uñflyia. Þad sie fiarre ad eg selie þier mijna Fødurleifd sagde Naboth vid Acab fordum/ 1. Reg. 21. er hañ falade hañs Vijngard til Kaups/ Þad forbiode Gud miñ Herra JEsu/

ad eg selie þann Himneska Arf sem þu hefur mier afrekad med þijnu allra helgasta Blode fyrer Veralldarennar Frid / hver ad er Reide og Fiandskapur i giegn Gude / Hvad er eitt Vatns-Drope hia Siafar-Nafenu? Hvad er eitt Sandkorn hia allre Heims-Bygdenne? Hvad eru Mootmælingar þessara Tijma hia þeirre Dyrd sem vid Guds Born mun openber verda? Rom. 8. Hvad er hin lietta Byrde þessarar stund-legu Armædu hia eilijfre Þijngd Dyrdarennar? Gud giæfe Menn villdu hier umm þeinkia / þa munde þm sijdur ofbiooda allt Yferlæte z Skar-tale Veralldarennar Sona / hverier ad eru ein Gufa er sieft umm Stund-arsaker seiger Jacob / Cap. 4. og hverfur sijdann / enn sa eitt er stadfast-ur sem varpar allre sinne Ahyggiu uppa hann / sem alltijd er hinn same / og hvers Ar ad þrotna ecke / Ps. 102. Þar þ vil eg seigia med Postulan-um: Eg em vel til Frids i Veikleikanum / i Forsmaanene / i Naudunum / i Ofsooknunum / i Angistenne fyrer Christum / þvi þa eg em veikur / þa em eg Mattugur. Þetta Sinne og Hiartalag virdst þu O Gud ad veita ollum þijnum Bornum sm a þig vona / z beriast under Merkinu þijns Son-ar i Utlegd þessare / þar til þu jnnleider oss i eilijfa Himnarijkis Vist til ad medtaka þijn Nadar-Fyrerheit med ollum Guds Bornum. Veit oss þad og gief Himneske Fader fyrer Arnan og For-þienustu þijns Eingietens Sonar JEsu Christi / AMEN.

# A Hvijtasunnu Hatijd.

Gudspialled / Joh. 14. Cap.

OG JEsus sagde til sinna Lærisveina. Hver hann elskar mig sa mun vardveita mijn Ord / og Fader minn mun elska hann / og til hans munum vid koma / og hia honum Vistar-veru giora. Enn hver hann elskar mig eige / sa vardveit-er ecke mijn Ord. Og þad Orded sem þier heyrdud / er ecke mitt / helldur Fodursins þess sem mig sende. Þetta talade eg fyrer ydur / a medann eg var hia ydur. Enn Huggarenn sem er hinn heilage Ande /

þann

Þañ er miñ Fader mun senda ydur i mijnu Nafne / hañ sialfur mun kieña ydur alla Hlute / og miña ydur a allt þad sem eg sagda ydur. Miñ Frid læt eg hia ydur / Miñ Frid gief eg ydur / eige so sem Heimureñ giefur / þa gief eg ydur. Ydart Hiarta hriggest ei nie skielfest. Þier heyrdud þad eg sagda ydur / eg fer burt og kiem aptur til ydar / ef þier elskudud mig / þa gleddust þier vid þad / ad eg sagda ydur / ad eg fer til Fodursins / þviad Faderenn er mier meire. Og nu sagda eg ydur þad / adur fyrre eñ þad skiedur / so ad þier trydud þvi / þa ed þad være skied. Hiedañ i fra mun eg ecke tala margt vid ydur. Þviad þessa Heims Hofdinge kiemur / og med mig hefur hañ eckert. Helldur so ad Heimureñ þecke þad eg elska Fodureñ / og þad eg giøre so sem Faderenn hefur mier boded.

## Exordium.

J EXODI BOKar 25. Cap. Talar DRottenn þañeg um syna Vist medal Israels Sona: Þeir skulu giøra mier eiñ Helgedoom / og eg skal bwa a medal þeirra. O miñ Gud / hvilyker eru þesser þyner Velgiørningar? Þad mætte noog þykia ad øll Natturañ ber Vitne um Guds Owtseiganlega Giæsku / ad Himnarner framtelia hañs Dyrd / og ad Festingeñ kuñgiører hañs Vegsemd / Ps. 19. So ad Meñ kyñu ad leita ad hønum af hañs Skepnum / og ad hañ hefur ecke lated sig vera añ syns Vitnisburdar / þar hañ veiter oss gooda Hlute / giefande oss Regn af Himne ofañ / og hagkvæma Tyma til ad bera Avøxt / uppfyllande Hiørtu vor med Fæslu og Føgnude sem Paulus seiger / Act. 14. Noog mætte allt þetta þykia seige eg / þoott ecke hefde hiñ Ogrundanlega Hatign sett Boolfestu syna medal Syndugra Jardar Madka sem eru Dupt og Aska. Nu þyker oss þesse Vegsemd Israels Sona Forkuñar væn og vegleg Br. M. so sem huñ og i Raun og Sañleika er / Eñ vier høfum þo i Christo øllu meira þeiged / þvi Dyrd hiñs sydare Musteresins / sem er hañs Christne hier a Jørduñe / huñ er vordeñ miklu meire eñ hiñs fyrra / So sem DRottenn spaade fyrer Muñ syns Þienara Haggæi Cap. 2. Edur hver Hlutur mæ þar vid jafnast ad Orded vard Hollð og bygde med oss / Joh. 1. Ad i Eining um Adams Syne byr øll Fylling Guddoomsins Lykamlega / Col. 2. Ad Guds Eingieteñ Sonur er Hluttakande vordeñ Hollds og Bloods eins og Smaa Børnen / Ebr. 2. Eñ þoott ad þetta sie Upphaf og Grundvøllur Heilsugiafarenar / þa muñde oss ecke ad-þurfa stoda Holldtekia DRottens / nema hañs Fødurleg Giæska hefde giørt eñ framar vid oss og epnt þad er hañ lofade hiñ Zach. Cap. 6. seigande: Sia eiñ Mañ hvers Heite ad er Grein Kvistur / Hañ mun bloomgast i synum Stad og uppbyggia DRottne eitt Mustere / 1. Cor. 3. Þad er Guds Kyrkia e Mañaña Hiørtum / i hveriu Christur byr fyrer Tiwna / Eph. 3. Og

hañ er þar sialfur Kieñemadur i synu Hæsæte og Raad Fridarens a mille beggia / Zach. 6. Nu þoott ad þesse Naadvist Guds sie øllum Miøñum frambodeñ / þa nææde þad DRottneñ ad so Margur verda heñar Hluttakande / Eñ hvad velldur þvi / nema ad Meñ leggia eckj mioøg Kapp þar a ad inbiooda þessum Giester ? Vier høyrum um hañs Gvine iñe hia oss / med hverium hañ vill ecke Samfaste eiga / þeim villa Meñ ecke wthysa / og þvi missa þeir hañs Naalægdar og Velgiørninga er so lyndar eru / Eñ so ad aller þeir ed leggia nockurn Hug a þetta / meige vita med hverium Kostum hønum meige inbiooda / þa hefur JEsus þad sagt med þessum Ordum i upplesnu Gudspialle / þar hañ seiger: **Hvor hañ elskar mig / Sa mun vardveita myn Ord / Og Fader miñ mun Elska hañ / Og til Hañs Munum Vid KOma / Og Hia Hønum Vistarveru Giora.** Þesse Dyrmætu Ord vil eg nockud framar skiervega fyrer ydrum Kiærleika / Og af þeim framtelia þa hellstu Hlute er eiga ad locka Hiørtu vor til ad Elska Gud hiñ Ypparsta Gooda fram yfer allt añad. Hañ virdest ad frekka toss sýna Elsku / So vier þetta Erende so framkvæmt gietum / ad hønum sialfum lyke / Fyrer JEsum Christum / AMEn.

## Utleggingeñ.

Þæer eru Veralldar Br. M. ofur Synelegar / i hverre vier lifum / Ofur er þar uppe / hvadañ vier væntum Frelsarans JEsu Christi / Um hveria St. Petur talar ad i heñe mune Riettlæted byggia / 2. Pet. 3. Ina sium vier med Lykamlegum Augum / þessa med Truarennar / þvi Truen er Vera þeirra Hluta sem koma munu / Heb. 11. og hun syner þad sem ecke er Synelegt. Hvert sem vier nu helldur reñum Sæalareñar edur Lykamans Augum / og lytum i Kring oss med Athygle nockurre / og Gaumgiæfne þeirra Hluta er fyrer oss bera / þa giefur christeñ Madur ecke hia þvi sneidt ad elska Gud allra Hluta Skapara fram yfer alla Hlute. Lyt christeñ Madur a hiñ fagra Skapnad Heims þessa / hversu kostulegur hañ er / hañ hafa heidner Meñ a Latinu kallad Mundum / fyrer hañs Fegurdar saker / z Grikker i sama Meining Cosmon / sokum hañs Pryde. Athuga hin fagra Himensins Trooa / hversu þeim er visslega nidurskipad / þau hafa siñ afmarkadañ Gang allt fra Veralldareñar Upphafe / allt til þessa Dags / so alldrei hefur eñ nu broted Noott nie Dag / Vetur nie Sumar / Hita edur Kullda i hagkvæmañ Tyma / Gen. 8. Vid þetta þær Nattaru Dyrañna / Fuglañna / Fiskañna / Grasañna / hver so eru prydeleg / ad Salomon i allre siñe Dyrd var ecke so skrydur sem

eitt

eitt af þm̄/Luc.12. Eñ seiged mier/fyrer hvern hefur Gud allt þetta skapad? Seiger ecke David/Ps.8. Þu hefur sett hañ (Mañeñ meinar hñ) yfer þyn Handaverk og lagt alla Hlute under hñs Fætur. Sagde ei Drottieñ Gud i Upphafe Skøpunar? Drottned yfer Fuglū Loptsins og Fiskū Siafarens/Gen.1. Itrekade hañ ecke hid sama epter Floodeñ vid Noa og hñs Epterkomendur? Gen.9. Sagde ei St. Pall/ad hñ hefde af einu Bloode giort allt Mañkyn? Act.17. ad þ bygde alla Jardar-Kringluna/ og hañ hafe afmarkad Tymana med synu Bode/ og sett Endemørk Bygdū Mañna? Seig mier/christeñ Madur/hvern skyllder þu helldur elska eñ þañ/ er so vel hefur til þyn giort ut af Einskiærre Gæsku siñe/ Eñ eingre þiñe Forþienan? Þyker þier nu nockud Jñdælt edur Elskuverdt a þessū GudsSkiepnū sem hañ hefur lagt under þynar Fætur/ þier til Nota og Epterlætis / þa gleym ecke ad elska hñ þo um̄ fram̄ alla Hlute sm̄ þta hefur þier giefed/ þad heiler ad fara aptan ad Sidunū/ad þacka Þenarañū/sm̄ færer þad sem Husbondeñ giefur/edur ad virda Ambattena meir eñ Drottninguna. Eñ stærre Orietttur er Gude gior i þvi ad elska hñs Skiepnur fyrer þ Gooda sm̄ hañ hefur sænt þær med/fram̄ yfer hañ sm̄ er Bruñur og Uppspretta alls hiñs Goda. Lat þvi sem christeñ Madur ad þu temier þier Lunderne St. Pals/er hñ sagde/ Phil.3. Ad sonu reikna eg alla Hlute Skada ad vera fyrer Yferburde Þeckingareñar JEsu Christi myns Drottens/vegna hvers eg hefe alls a mis fared og reikna Þreck ad vera/ so eg aviñe Christum. Þegar þu hefur nu þañeg hiñ meira Heim i giegnū skodad / og þu sier eckert i hm̄ þad er ei drage þig jafnvel naudugañ til ad elska hiñ goda Gud fram̄ yfer alla Hlute/ þa skoda og hiñ miña sm̄ er Madureñ/þad ert sialfur þu/hañ er og med tveñu moote Andlegur og Lykamlegur. Lyt fyrst til þess Lykamliga/ Hver hefur myndad þig i Moodur Lyfe? Hver hleypte þier þar samañ eins og ødrū Oste? Job.10. Þad giørder ecke sialfur þu/ecke Forelldrar þyner/þynar Hendur hafa giort mig & tilbued mig seiger David/Ps.119. Hver hefur leidt þig ut þadañ so dmsamlega i Lios þessa Heims? Hver hefur giefed þier heilbrygda Sal i heilbrygdum Lykama? Alyt hversu

þiñ Skapnadr er vegsamligre eñ allra añara Dýra a Jørduñe/ hver þo ecke hafa Gud a neiñ Veg. slygdañ/ eñ þu reiker hñ til ReideDaglega. Þockneſt þier nu nockud a ſialfum þier/ og þyke þad vænt og veglegt ſm Gud hefur til þyn lagt/ ſo ſm þad og er i allañ Maata/ þa læt hñ þo fyrer ganga er giørde þig ſo veglegañ/ og ſæmde Drottnara allra Aluta under Himnenū med ſiñe eigeñ Mynd i fyrſtu Skøpun. Athuga hvad hñ hefur þier meira giort/ hñ hefr ecke ſlept þierForſiodulauſñ uñ i Verølldena/ J hm̄ lifer þu/ ert þu og hræreſt þu/ Act. 17. Nañ hefur giefed þier alla Aluke mægianliga til Nolkunar/ Act. 14. Nañ lætur ſiña H. Eingla/ Pſ. 91. þa himneſku Anda liona þier og vard veita fra øllu vondu/ øllum Slijſum/ allre Ogiæfu/ Jafnvel mot i Syndeñe/ hveria þu giefur ecke vid þig ſkiled all ſo leinge ad þu ert i Nollðenu. Eru þeir ecke aller Þionuſtuſamer Andar ſeiger Poſtuleñ til Ebr. 1. utſender þm̄ til Þionuſtu er Sæluhiaalpena Erfa ſkulu? Jæ/ Andſkoteñ ſialfur ſagde epter Davids Muñe vid vorn Frelſara/ Matth. 4. Þad ſem ſatt var/ þo i illre Meiningu. Skrifad er ſagde hañ/ ad hañ mun biooda Einglum ſiñum um̄ þig/ ad þeir bere þig a Nondum ſier/ ad ecke ſteiter þu Foot þiñ vid Steine. Seig mier/ hver er þiña Vina edur Vandamaña lekur ſo Vara a þier/ hveriū er ſo miog um̄ þig hugad? Skylldver þu ecke hafa Fødur og Moodur/ Syne og Dætur fyrer hñs Skulld/ Luc. 14. ad þu mætter verda hañs verdugr ur. Eitka þvi ecke jafnvel þitt Lyf allt i Daudañ hñs vegna ſm̄ þier hefur Lyf og Lykama giefed/ og verk mikugur þeſſ er Chriſtur ſeiger/ Matth. 10. Sa ſem finur ſiña Saalu/ hñ mun tapa heñe/ og ſa ſem tapar Saalu ſiñe miña vegna/ hñ mun fiña hana. Eg vil ei margt tala um̄ Saaleña/ ſm̄ er hiñ ædre Partur vors Skapnadar/ mikiſt a chriſteñ Madur hvadañ þu ert/ Lykameñ er ad ſøñu af LeyrJardar/ eñ Saaleñ af Gude/ (med hveriu Moote veit hñ beſt ſialfur) og meſt þ þa Skulld ſeiger Lucas 3. E. Ad Adam hafe GudsSonur vered/ þvi ſialfur Gud blies lifande Anda i Mañſins Naſer/ Gen. 2. Ef vier erū nu ſkyllduger ad elſka Fødur og Moodur/ af þvi þau hafe oſſ gieted og fædt i Heim þeña/ Nvad miklu framar er þad ſkylldugt ad vier leggium alla

Aſt

Asi a hn̄/af hvers Dyrdar-Lioma vier og vor Ande i Fritstun̄e kveiktur er. Vel talar St. Paull hier um̄ / Act. 17. Seigiande: Nu / þar vier erum Guds Afspreinge/ þa byrtar ad vier ei þeinkium̄ ad Gud syfur sie Gulle z Silfre edur Steinum̄/ nie vel smijdadre Likneskiu edur Manna Þaunkum. Enn so sem þad er Ovidurkvæmelegt sem Postulen̄ hier um̄ talar/ so er þad og Afgudadyrkun stoor og merkelig Gudløstun ad elska nockud af þessu jafnframt hønum/ og maa þad øllum heilvita Mønnum sialfsagt vera/ hvilykur Glæpur þ sie ad lima so gøfugann Hlut sem Saalen̄ er / til Þrælkunar Syndeñe / edur Veralldarennar Munum / hver ed mun fyrerfarast med øllu þvi sem i heñe er/ þar fyrer aminner Johañes næsta heilnæmliga/ seigiande: Elsked ecke Heimen̄/ nie þad sem i Heimenu er/ Ef nockur Heimen̄ elskar/ þa er ecke Kiærleike Fødursins i hm̄/ 1. Joh. 2. Enn Gud/ af hverium̄ Saala vor inblasen̄ er/ hann blijfur/ og hans Ar þrotna ecke/ Ebr. 1. Athuga hin skynlausu Dyren̄/ þott þau sieu dasamliga skøpud/ þa hafa þau ecke Skyn a þm̄ Hlutum̄ er þ þau bera/ Ei ransaka þau sitt Edle/ ecke er Framsijne hia þm̄ mikel/ eingenn̄ Næverska/ Skynseme/ Adgreining Goods edur Ills/ og allra sijdst þeckning Skaparans. Skyllder þu nu ecke syndugur Madur elska hann fram̄ yfer allar Skiepnur/ er so miked meira hefur lagt til þijn helldur enn an̄ara Skiepna/ sem ad Saalen̄ er Saurenū starkare/ þar Madurenn̄ er eitt Dijr fullt af Rænde z Skilninge/ hn̄ kann Greina Illu z Godu/ hann giefur utvaled hvert hn̄ vill/ hann veit hvad koomer edur ei/ hann eirn kann ad lære ad þeckia Vilia sijns Herra/ hn̄ hefur uppfunded allañ Hagleik/ allar Kunster og Lister i Heimenum̄/ hn̄ hefur utreiknad Himensins Hlaup/ og veit Tijma og Stunder fyrerfram̄/ hann skygnest inn i leyndar Doma Natturuñar/ so ad Guds Outsegianlig Vitska sem̄ Natturuna hefur skapad/ utbrijtur sig i Skynseme Mañsins um̄ allt Natturuñar Rijke epter þm̄ Maata sem̄ hun̄ fær vidteked i þessu daudlega Lijkama/ Enn þo er þ fyrer ollu ad hun̄ þecker Gud sinn Skapara/ z a þann Kost ad trua a hann sier til Miskunar og Saaluhjalpar / i hverju ad er innefalenn̄ Endurskøpun hins inra edur Andliga Mañsins. Þeink til þess christenn̄ Madur ad þu fæddest i þenna Heim Reidennar Barn/ og daudur

